# BÆNAKVER,

EPTIR

DR. P. PJETURSSON.

---




ÚTGEFANDI:

EGILL JÓNSSON Í REYKJAVÍK.

1860.

# Vikubænir.

## 1. Morgunbænir.

### Sunnudags morgunbæn.

Æ! himneski ljósanna faðir! sem lætur þína sól upprenna yfir oss, sem lætur sólarljósið lífga og verma náttúruna og útbreiða blessun á jörðunni; láttu einnig þína himneska náðarsól upprenna yfir oss, láttu hið sanna ljósið, þinn eingetinn son Jesúm Krist, upplýsa hjörtu vor í dag og alla daga og burtrýma þaðan öllu vanþekkingar og villumyrkri öllum kulda og kærleiksleysi, svo vjer getum rjett þekkt þína eilífu föðurgæzku og elskað þig af öllu hjarta. Láttu þitt heilaga orð leiða oss í allan sannleika og kenna oss, hvernig vjer eigum að snúa oss til þín og verða þín góð og hlýðin börn. Ó! herra Jesús Kristur, himneska sól rjettlætisins! upprenn þú í sálum vorum með þínu helganda ljósi, svo að sjerhver lífdagur vor

verði sannkallaður sunnudagur. Vek þú oss af svefni andvaraleysisins og hálfvelgjunnar, svo vjer ekki lifum sjálfum oss, heldur þjer, sem fyrir oss ert dáinn og upp aptur risinn. Heilagi sannleikans andi! taktu þjer bústað í hjörtum vorum og gjör þú þau að þínu musteri, svo vjer hlýðum þínu orði með andakt og eptirtekt og geymum það í góðum og siðsömum hjörtum. Helga þú allar hugsanir vorar og allt vort hugarfar, svo vjer þessa viku og alla æfi daglega tökum framförum í helgun og guðsótta. Æ! þríeini góði Guð! vertu hjá oss og vernda þú oss um tíma og eilífð! Amen.

## Mánudags morgunbæn.

Lof og dýrð sje þjer, algóði, himneski faðir! fyrir alla þína náð og miskunsemi, fyrir allar þínar velgjörðir við oss auma og synduga menn. Þú ert skapari vor og verndari og þjer eigum vjer allt gott að þakka. Einnig á þessum morgni er þín náð og miskunsemi ný og fersk yfir oss og þín föðurhönd gætti vor á umliðinni nóttu. Lofað og vegsamað sje þitt heilaga nafn að eilífu! Æ! vjer biðjum í Jesú nafni, láttu þinn föðurlega kærleika hvíla yfir oss í dag og alla daga. Láttu um-

hugsun um þína heilögu alstaðarnálægð jafnan vera lifandi í sálum vorum, svo vjer höfum þig í huga og hjörtum hvar sem vjer erum og hvert sem vjer förum og forðumst að syndga móti þjer í hugsunum, orðum og verkum. Viðhaltu og styrktu oss í samfjelagi við þig og elskunni til þín. Láttu þinn heilaga anda kenna oss undirgefni undir þinn vísdómsfulla og gæzkuríka vilja, svo vjer með auðsveipni og þolinmæði tökum hverju því, sem þú lætur oss að höndum bera. Láttu þá blessun, sem þinn eingetinn sonur afrekaði oss með sinni friðþægingu, útbreiðast yfir allt, sem oss mætir, svo að allir hlutir þjóni oss til góðs og verði til þess að gróðursetja oss enn betur í þínum kærleika. Ó, þú eilífi Guð! þú, sem ert og varst og verður, minnstu vor af náð þinni, þó vjer sjeum dupt og aska og leiddu oss yfir hættur og torfærur þessa lífs inn í þitt himneska ríki. Bænheyr oss í Jesú nafni. Amen.

## Þriðjudags morgunbæn.

Mildiríki Guð og faðir! Lof sje þjer fyrir það, að þú náðarsamlega gættir vor og verndaðir oss á þessari liðnu nóttu. Æ! kenndu oss að þakka þjer eins og vera ber fyrir þína óendanlegu föðurgæzku;

kenndu oss að þakka þjer af öllu hjarta og láttu Krist fyrir trúna búa í vorum hjörtum, svo vjer berum ávexti trúarinnar, sem eru: elska, von og auðmýkt, hógværð og þolinmæði. Láttu oss umfram allt leita þíns ríkis og þíns rjettlætis, svo hjörtu vor ofþyngist ekki af sorgum og áhyggjum þessa lífs. Blessa þú oss og öll vor störf í þínum ótta, blessa þú alla, sem þín leita, og leið hina villuráfandi á rjetta leið. Æ! miskuna þú öllum þjáðum og sorgbitnum, öllum þínum krossberendum. Þín náð og þinn friður sje með oss í dag og æfinlega. Sendu oss friðarins og kærleikans anda, svo vor hús og heimkynni verði friðarins og eindrægninnar bústaður og vjer fáum haldið einingu andans í bandi friðarins. Gef þú oss frið við þig, frið við sjálfa oss og frið við aðra menn og láttu vort húsfjelag verða fagra fyrirmynd hins eilífa fjelagskapar útvaldra í þínu himneska ríki, þar sem allt er rjettlæti friður og fögnuður í þínum anda. Bænheyr það friðarins eilífi Guð, í Jesú nafni. Amen.

## Miðvikudags morgunbæn.

Jeg þakka þjer, góði Guð! af öllu hjarta fyrir það, að þú hefur náðarsamlega verndað mig á þessari nóttu. Æ! gef þú mjer náð

til þess, að geta varið þessum degi samkvæmt þínum heilaga vilja, svo eg forðist að móðga þig með syndsamlegum hugsunum og saurugum girndum, forðist að styggja eða hneyxla aðra með illum og óviðurkvæmilegum orðum; já, forðist allt það, sem illt er, bæði í orði og verki, en ástundi að gjöra verk minnar köllunar með álúð og samvizkusemi og hafi þig fyrir augunum í allri minni breytni. Æ! hreinsa þú hjarta mitt og gróðursettu þar auðmýkt, mannelsku og þolinmæði, svo jeg finni til þess, að jeg er aumur, breyskur og brotlegur, sem ekkert megna án þinnar hjálpar og er í öllum hlutum kominn upp á þína náð og miskunsemi. Láttu þessa tilfinningu vekja hjá mjer vægð og vorkunsemi við mína breysku bræður, svo jeg fyrirgefi þeim af hjarta það sem þeir kunna að gjöra á hluta minn og auðsýni þeim alla þá hjálp og aðstoð, sem í mínu valdi stendur. Styrktu mig í stöðuglyndi og þolinmæði, svo jeg með auðsveipni taki hverju því, sem þú lætur mjer að höndum bera og trúi því staðfastlega, að mótlæti og þjáningar eru meðöl í þinni mildiríku hendi til að losa hjarta mitt við hjegóma veraldarinnar og draga það nær þínu himneska föðurhjarta, trúi því staðfastlega, að mótlætingar þessa tíma eru ljettvægar í saman-

burði við þá eilífu og óumræðilegu sælu, sem þú hefur mjer fyrirhugað í þínu himneska dýrðarríki. Amen.

## Fimmtudags morgunbæn.

Æ, drottinn! hvernig gætum vjer byrjað nokkurn dag án þess að endurminnast þeirrar verndar og náðar, sem þú, eilífa gæzkan! auðsýnir oss á hverri nóttu og hverjum degi, já á hverju augnabliki þessa vors jarðneska lífs? Þökk sje þjer himneski faðir! fyrir allt gott, sem þú veitir oss í vöku og svefni. En hvernig getum vjer líka byrjað nokkurn dag án þess að endurminnast þess, að vjer erum hjer gestir og framandi, að vjer erum á leiðinni til dauðans og dómsins, og að vort rjetta föðurland er á himnum? Ó, vor guðdómlegi frelsari! sem ert á himnum við föðursins hægri hlið og sem þaðan munt koma í skýjum himins til að dæma lifendur og dauða; þú hefur heitið oss því, að vera með þínum trúuðu alla daga til enda veraldarinnar, æ! vertu oss nálægur í dag og hjálpa þú oss til að halda vegferð vorri áfram í samfjelagi við þig. Kenn þú oss að feta í þín fótspor, svo vjer ekki villumst út á hinn breiða veg, sem liggur til glötunar, nje hörfum undan þínum merkjum.

þú þekkir veröldina og þær hættur og freistingar, sem oss eru búnar, en þú þekkir líka vorn breyskleika og vort hvikula og óstöðuga hjartalag. Æ! vertu máttugur í vorum veikleika, svo vjer megnum alla hluti fyrir þig, megnum að sigra sjálfa oss og heiminn; gjör þann enda á sjerhverri freistingu, að vjer fáum staðizt og láttu engan slíta oss úr þinni hendi, þangað til vjer förum hjeðan og fáum að vera hjá þjer um aldir alda. Amen.

## Föstudags morgunbæn.

Almáttugi skapari himins og jarðar! Á þessum degi vikunnar myndaðir þú manninn og á þessum degi vikunnar endurleystir þú syndugt mannkyn með friðþægjandi dauða þíns elskulega sonar. Vjer þökkum þjer af öllu hjarta fyrir þessar velgjörðir þínar óg biðjum þig að auðsýna oss aumum mannskepnum þínum náð miskunsemi og láta friðþægingu þíns sonar bera hjá oss ávexti til sáluhjálpar. Æ! drag þú oss alla til þín. Minnstu ekki vorra synda og misgjörða, en minnstu vor eptir þinni miskunsemi. Hvergi nema hjá þjer finnur sálin hvíld og rósemi og því mænum vjer upp til þin vorum trúar og vonar augum. Líttu í náð niður til vor

og viðhaltu oss í trú og elsku þangað til vjer fáum að koma til þín og sjá þig auglíti til auglitis. Æ! vjer getum ekki annað en flúið til þinnar náðar; sjálfir megnum vjer ekkert án hennar og vorum eigin verðleikum megum vjer ekki treysta, því þeir eru engir, en vjer reiðum oss á friðþægging fyrir vorar syndir og eigi einungis fyrir vorar, heldur og allrar veraldarinnar og hann er meðalgöngumaður vor hjá þjer. Í hans nafni biðjum vjer: sendu þinn anda í vor hjörtu, svo vjer getum lifað þenna dag og alla daga eptir þínum heilögu boðum, og þegar vegferð vor hjer er á enda, æ! láttu oss þá í hans nafni fá sáluhjálplegan dauða og inntöku í þína dýrð á himnum. Amen.

## Laugardags morgunbæn.

Á þessum seinasta morgni vikunnar lyptum vjer hjörtum vorum í hæðirnar til þín, himneski faðir! og þökkum þinni óendanlegu föðurgæzku fyrir þína vernd á umliðinni nóttu. Þín náð vakti yfir oss þegar vèr sváfum; þín náð ljet oss aptur vakna til þessa lífs; æ! láttu þína náð leiða oss þenna dag og alla daga, svo vjer ekki göngum í myrkri, heldur eins og ljóssins börn, og fáum við enda þess-

ara vorra hjervistardaga að koma til þín á ljóssins og sælunnar land. Hinn seinasti dagur vikunnar minnir oss á vorn seinasta lífdag hjer í heimi og vjer vitum ekki, hvort hans er langt eða skammt að bíða; æ! vertu oss þá einnig nálægur með þinni náð og gef þú, að dauðadagur vor verði sannur gleðidagur fyrir oss, upphaf hins eilífa fagnaðar og friðar hjá þjer og frelsara vorum og öllum útvöldum. Vek þú oss drottinn! með þínum bendingum og áminningum í hvert sinn sem vjer ætlum að verða hálfvolgir og hirðulausir um vor sáluhjálparefni, svo vjer verðum brennandi í andanum og leggjum alla stund á að gjöra vora útvalningu vissa. Amen.

---

## 2. Kvöldbænir.

### Sunnudags kvöldbæn.

Þökk sje þjer, mildiríki himneski faðir! fyrir það, að þú ljezt þinn eingetinn son fræða oss um þitt ráð og þinn vilja oss til frelsis og sáluhjálpar. Þökk sje þjer fyrir það, að þú í dag gafst oss kost á, að heyra, lesa og hugleiða þitt heilaga og sáluhjálplega orð. Æ! vertu oss náðugur

og miskunsamur, og fyrirgef þú oss, að vjer svo opt höfum verið tómlátir í, að hafa það um hönd og látið það svo opt eins og vind um eyrun þjóta. Sviptu oss ekki þínu blessaða lífsins orði, þó vjer með andaktarleysi og kaldsinni voru og syndum vorum höfum til þess unnið; heldur láttu það eptirleiðis tala til vor með áminningum og uppörfunum og bera hjá oss ávöxt til eilífs lífs. Æ! hjálpa þú oss af ríkdómi þinnar náðar til að endurnýjast í anda vors hugskots, svo það hjer eptir verði oss ljúft og unaðarfullt, að hugsa um þig og þínar dásemdir og leita oss uppfræðingar og huggunar í þínu heilaga orði. Mennta þú oss með þínu orði og þínum anda, svo vjer verðum hæfilegir til að fá inntöku í þitt himneska ríki. Vernda þú oss á þessari nóttu og gættu vor fyrir öllu illu; vertu hjá oss í vöku og svefni, í lífi og dauða, í Jesú nafni. Amen.

## Mánudags kvöldbæn.

Almáttugi og eilífi Guð! Þín og þinnar miskunar eigum vjer að leita með daglegri iðrun og apturhvarfi. Æ! láttu nú þinn anda minna oss á allt, sem vjer í dag höfum syndgað á móti þjer í hugsunum, orðum eða verkum, og gefðu oss náð til þess,

að nálgast þig með harmþrungnum og iðrandi hjörtum. Vjer þökkum þjer fyrir þá mildiríku hjálp og aðstoð, sem þú hefur veitt oss á þessum degi, og felum oss á þessari nóttu þinni föðurlegu vernd og forsjón á hendur. Æ! haltu þinni verndarhendi yfir oss og láttu oss út af sofna með þeirri sannfæringu í hjörtum vorum, að þú gætir allra þinna barna, að þú ert skjól og skjöldur allra, sem á þig vona. Líknsami Guð! í þínu náðarnafni leggjumst vjer nú til hvíldar; láttu oss sofna í þínum friði og vakna aptur til að lofa og vegsama þitt heilaga nafn. Bænheyr það í Jesú nafni. Amen.

## Þriðjudags kvöldbæn.

Gæzkuríki Guð og faðir! Aldrei fáum vjer til fulls þekkt nje upptalið þær náðarríku velgjörðir, sem þú veitir oss á hverjum degi og hverri stundu dagsins. Sjerhver dagur, sem vjer lifum, sjerhver stund og sjerhvert augnablik ber vott um þína náð og miskunsemi. Frá þjer, eilífi ljósanna faðir! kemur öll góð og öll fullkomin gjöf og allar gjafir þínar gefur þú oss af einskærri náð, því vjer höfum til einskis unnið nema hegningar með syndum vorum og vanþakklæti voru. Æ! hjálpa

þú oss, svo þín náð verði ekki til ónýtis á oss, hjálpa þú oss til að taka daglega framförum í dyggð og helgun, svo vor innri maður daglega endurnýist, þó vor ytri maður hrörni. Haltu þinni almáttugu verndarhendi yfir oss í nótt og alla tíma og gættu vor fyrir öllum slysum og háskasemdum. Láttu oss sofna sætt og vært í þínum friði og eptir næturinnar hvíld aptur vakna til að lypta hjörtum vorum upp til þín með lofgjörð og þakklæti; og þegar lífdagur vor er liðinn og eilífðarinnar morgun upprennur, æ! flyttu oss þá þá í þínum friðarfaðmi á ljóssins og sælunnar land. Bænheyr það í Jesú nafni. Amen.

## Miðvikudags kvöldbæn.

Eilífi miskunsemdanna faðir! Lofað og vegsamað sje þitt heilaga nafn! Þín óendanlega gæzka hefur leyft oss að lifa þenna dag og þannig ennþá bætt einum degi við tölu vorra hjervistardaga. En hefur þá þessi dagur flutt oss nær þínu föðurhjarta, flutt oss nær himninum, eins og hann hefur flutt oss nær gröf og dauða? Eða höfum vjer ennþá aukið vora syndasekt, ennþá lifað einn dag í andvaraleysi og hugsunarleysi um vor eilífu forlög? Þú

þekkir oss alla, heilagi og allsvitandi Guð! þú þekkir hjörtu vor og allt vort háttalag. Æ! vjer finnum sjálfir til þess með angri og trega, að oss miðar dag hvern lítið áfram á helgunarinnar vegi, að einnig þessi umliðni dagur er nýr vottur um breyskleika vorn, um tregðu vora til að vaka og tómlæti vort í að biðja. Fyrirgef oss vorar skuldir fyrir Jesú Krists skuld og gef þú oss náð til þess, að verða árvakrari og bænræknari og kostgæfnari til allra góðra verka. Vernda þú oss náðarsamlega í nótt og láttu ekkert illt granda oss á sálu eða líkama; láttu oss sofna sætt og vært og sálu vora lifa í þjer, svo vjer tilheyrum þjer hvort sem vjer sofum eða vökum, lifum eða deyjum. Þóknist þjer, himneski faðir! þá leyf þú oss að vakna aptur til þessa lífs á morgun glöðum og heilbrigðum, og láttu vora fyrstu hugsun vera bænarandvarp til þín og þakkargjörð. En hafi þín eilífa speki ályktað, að kalla oss hjeðan á þessari nóttu, æ! láttu oss þá aptur vakna hjá þjer, í þínu himneska ríki. Verði á oss þinn vísdómsfullur og náðugur vilji. Amen.

## Fimmtudags kvöldbæn.

Vertu hjá oss, drottinn! því að kvölda tekur og á daginn líður. Sjerhvert fimmtu-

dags kvöld ætti að minna oss á pínu þína í grasgarðinum, og að þú á því kvöldi tókst til að hryggjast og titra, svo að sál þín var hrygg allt í dauðann og sveiti þinn varð eins og blóðhnyklar, sem fjellu á jörðina. Æ! vjer þökkum þjer, drottinn vor og frelsari! fyrir þessa þína óumræðilegu pínu, sem þú leiðst vegna vorra synda. Vek þú hjá oss einlæga iðrun fyrir afbrot vor og lifandi óbeit á syndinni, en lífgaðu þá sannfæringu í hjörtum vorum, að veröldin liggur í hinu vonda, og hjálpaðu oss til að afneita hennar lystingum, fýsn holdsins og drambsömu líferni. Æ! láttu oss finna til þeirrar blessunar, sem þinn friðþægjandi dauði veitir öllum sanniðrandi mönnum og gefðu oss náð til að lifa og deyja í samfjelagi við þig. Styrktu vora veiku krapta í stríði freistinganna, styrktu vort stöðuglyndi í krossskóla þjáninganna, styrktu þá trú í hjörtum vorum, að ef vjer líðum með þjer, þá munum vjer einnig með þjer vegsamlegir gjörðir, og úr býtum bera kórónu lífsins ef vjer reynumst þjer trúir allt til dauðans. Í þínu nafni leggjum vjer nú augun aptur; þitt alltsjáandi auga vaki yfir oss og gæti vor á þessari nóttu, svo að ekkert illt fái oss grandað. Þín náð og þinn friður sje með oss nú og að eilífu. Amen.

## Föstudags kvöldbæn.

Ennþá er einn lífdaga vorra liðinn og vjer erum fluttir einum degi nær dauða, eilífð og dómi. Æ, miskunsami Guð! þú hefur viðhaldið lífi voru allt fram á þenna dag og veitir oss á hverjum degi óteljandi velgjörðir af ríkdómi þinnar náðar. En vjer megum angráðir viðurkenna, að vjer erum minni allri þinni miskun og trúfesti. Daglega syndgum vjer; daglega brjótum vjer þín boðorð, í hugsunum, orðum, eða verkum, ef ei vísvitandi, þá af bráðræði og breyskleika, og sjerhver dagur ásakar oss fyrir hálfvelgju og hirðuleysi í vorum sáluhjálparefnum, fyrir kærleiksleysi, kaldsinni og hviklyndi hjartans. Æ! vjer flýjum nú til þín, eilífi miskunsemdanna faðir! Fyrirgef þú oss í Jesú nafni allar vorar syndir og ávirðingar; láttu ylgeisla þinnar eilífu náðar verma vor köldu hjörtu; láttu hana lífga og glæða vora trú og elsku og styrkja vora von, láttu hana gagntaka vora sál og sinni, svo vjer ekki lengur göngum eptir holdinu, heldur eptir andanum og verðum þín börn, kostgæfin til allra góðra verka. Æ! vertu oss einnig nálægur með þinni náð á þessari kvöldstundu og láttu þitt eilífa náðarljós lýsa oss í næturinnar myrkrum;

geym oss á þessari nóttu í faðmi þinnar föðurlegu miskunar og afstýr þú frá oss öllu því, sem oss getur grandað. Þinni mildiríku forsjón felum vjer oss og alla ástvini vora; vertu vor verndari í vöku og svefni, í lífi og dauða; í Jesú nafni. Amen.

## Laugardags kvöldbæn.

Ó, herra Guð, himneski faðir! Þegar vjer nú á þessu seinasta kvöldi vikunnar rennum augunum yfir hina útlíðandi viku og rannsökum hegðun vora og hjartalag, þá hljótum vjer með tárum og trega að viðurkenna, að vjer höfum syndgað í himininn og fyrir þjer; margt illt höfum vjer aðhafzt, mikið gott höfum vjer látið ógjört og öll vor verk eru ófullkomin, og þó hefur þín eilífa miskunsemi enn sem fyrri verndað oss og varðveitt, ennþá látið oss standa óupprætta í þínum náðarakri. Æ! hvernig fáum vjer verðuglega þakkað þjer, verðuglega lofað og vegsamað þitt heilaga nafn! Vort bænarkvak er veikt og ófullkomið, eins og vjer sjálfir erum breyskir og syndugir; en þegar vjer framberum vor bænarandvörp fyrir þig í nafni þíns eingetna sonar, vors heilaga frelsara, þá treystum vjer því, að

þau verði þjer velþóknanleg. Sendu oss anda bænarinnar, svo vjer getum þakkað þjer og beðið þig af öllu hjarta. Æ! láttu oss nú sofna með þeirri sannfæringu, að þú hafir fyrirgefið oss allar vorar syndir í Jesú nafni. Ó! hversu fljótt líða þessir lífdagar vorir og hversu opt eru þeir ekki liðnir áður en oss varir! En þú, drottinn! ert eilífur og óumbreytanlegur og þín ár og þínir dagur taka engan enda. Æ! kenn þú oss að telja vora daga; kenn þú oss að verja rjett þessum náðarinnar tíma, og mennta þú oss undir eilífðina, svo vjer sjeum viðbúnir, þegar æfikvöld vort kemur og dauðans nótt upprennur. Haltu þinni verndarhendi yfir oss á þessari nóttu og miskuna þú oss öllum í Jesú nafni. Amen.

---

# Bænir á hátíðum og helgidögum.

---

## Bæn á jólum.

Lof og dýrð sje þjer, eilífi Guð á hæðum! fyrir alla þína óendanlegu náð og miskunsemi; lof og dýrð sje þeir fyrir það, að þú elskaðir oss synduga menn svo heitt, að þú sendir þinn eingetinn son í heiminn, til þess að hver, sem á hann trúir, ekki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. Lof og dýrð sje þjer, vor guðdómlegi frelsari! fyrir það, að þú af einskærri elsku til vor íklæddist voru holdi, til að friðþægja oss við þinn himneska föður, til að færa oss hans himneska frið og boða oss hans góða og velþóknanlega vilja, til að frelsa oss frá hegningu og valdi syndarinnar og afreka oss eilíft líf. Þú hefur leitt oss frá myrkrinu til ljóssins, frá dauðanum til lífsins; þú hefur opnað oss himin Guðs náðar og hans dýrðar. En hvernig getum vjer eins og vera ber lofað og vegsamað þig og þakkað þjer fyrir þessa þína óumræðilegu elsku og þær ómetanlegu náðarvelgjörðir, sem þú hefur veitt oss? Það getum vjer bezt með því, að leyfa þinni náð og þínum anda inngöngu í vor hjörtu, svo að þín

friðþæging verði ekki til ónýtis á oss. En, æ! vjer megnum þetta ekki af sjálfsdáðum án þinnar hjálpar. Þess vegna flýjum vjer til þín og biðjum þig af öllu hjarta að verka hjá oss viljann og máttinn. Þú komst í heiminn til að sameina oss við Guð, æ! hreinsa þú hjörtu vor af öllu því, sem þessari sameiningu er til fyrirstöðu, svo þau verði hæfilegur bústaður þíns heilaga anda. Þú komst í heiminn til að endurleysa oss frá syndinni og afreka oss eilíft líf; æ! láttu krapt þíns friðþægjanda kærleika gagntaka sálir vorar, svo vjer getum endurfæðzt og endurnýjazt í anda vors hugskots og íklæðzt þeim nýja manni, sem skapaður er eptir Guði í rjettlæti og heilagleika sannleikans. Þú komst í heiminn til að stofna andlegt og eilíft ríki meðal allra þjóða; æ! láttu þetta þitt ríki útbreiðast meir og meir á jörðunni, svo að öll knje beygi sig fyrir þinni tign og sjerhver tunga viðurkenni, að þú ert drottinn, Guði föður til dýrðar. Láttu þetta þitt ríki meir og meir eflast og útbreiðast í vorum hjörtum, svo vjer þjónum þjer í anda og sannleika, þangað til þú flytur oss hjeðan úr þínu náðarríki í dýrðarríki þitt á himnum. Þjer og föðurnum og heilögum anda sje lof og dýrð að eilífu. Amen.

## Bæn á nýári.

Ó, þú eilífi aldanna faðir! þú, sem lifir frá eilífð til eilífðar, ofar öllum tíma og aldaröðum, en fyllir þó alla hluti með þinni eilífu alstaðarnálægð; þú, sem býr í því ljósi, sem enginn fær tilkomizt, en hefur þó opinberazt í fyllingu tímans í þínum eingetna syni Jesú Kristi, sem er ímynd þinnar veru og ljómi þinnar dýrðar, já opinberast í öllum hlutum, smáum og stórum; þú, sem ert hin hulda og eilífa uppspretta lífsins, en gefur þó öllu líf og andardrátt; þú, sem ekki ert einungis eilífur Guð og almáttugur skapari himins og jarðar, heldur einnig eilífur kærleikur og faðir allrar miskunar, upp til þín leita andvörp hjartna vorra, upp til þín mænum vjer augum trúar og vonar á þessum áramótum. Lof og dýrð sje þjer, líknsami faðir! fyrir hið liðna ár, fyrir allar þær óteljandi náðarvelgjörðir, sem þú á því veittir oss í andlegum og líkamlegum efnum, fyrir alla þína miskun og trúfesti við oss. Sjerhvert árið, sjerhver dagurinn og sjerhver stundin ber vitni um þína óendanlegu gæzku og að þú ert faðir allra, sem börn kallast bæði á himni og jörðu. En, æ því miður ber líka sjerhvert árið, sjerhver dagurinn og sjer-

hver stundin vitni um, að vjer erum breysk og brotleg börn, sem alltaf brjótum af oss þína náð og alltaf vinnum til hegningar. Æ! þetta liðna ár ásakar oss einnig fyrir vanþakklæti við þig, fyrir hirðuleysi og hálfvelgju í vorum sáluhjálparefnum. Hvernig fáum vjer upp talið allt hið illa, sem vjer höfum aðhafzt í hugrenningum, orðum og verkum, allt hið góða, sem vjer höfum vanrækt, því hver veit, hve opt honum yfirsjest? En þú veizt það, drottinn! þú þekkir oss og allt vort háttalag. Fyrirgef oss í Jesú nafni allar vorar syndir og yfirsjónir. Þó vjer höfum syndgað í himininn og fyrir þjer, flýjum vjer þó enn á þínar náðir — því hvert getum vjer annað flúið? — og biðjum þig, eilífi miskunsemdanna faðir! að auðsýna oss nýja náð á þessu nýja ári. Æ! styrk þú oss af ríkdómi þinnar náðar til þess fyrst og fremst að leita þíns ríkis og þíns rjettlætis, þá mun oss allt annað gott veitast, öll önnur björg og blessun. Forða þú oss við áhyggjum og sorgum þessa lífs og láttu þær aldrei draga hjörtu vor frá þjer, en gef oss það af þessum tímanlegu gæðum, sem þú sjer oss fyrir beztu. Kenndu oss að þekkja og þakka velgjörninga þína og verja þeim oss og öðrum til góðs; kenndu oss að vera guð-

hræddir með nægjusemi, því það er mikill ávinningur; kenndu oss að erfiða í þínum ótta og hafa umgengni vora á himnum; kenndu oss að vera þolinmóðir í þjáningum og krossburði og sýna undirgefni undir þinn blessaða og gæzkuríka vilja. Styrk þú vort trúnaðartraust á þjer, elsku vora til þín og meðbræðra vorra og von um uppfyllingu allra þinna fyrirheita. Æ! láttu oss á þessu nýja ári verða að nýjum og betri mönnum, svo vor innri maður endurnýist þó vor ytri maður hrörni; láttu oss á hverjum degi og hverri stundu miða áfram á helgunarinnar og sáluhjálparinnar vegi, eins og oss á hverjum degi og hverri stundu miðar áfram á veginum til dauðans og og eilífðarinnar. Þú hefur enn eitt ár látið oss standa óupprætta í þínum náðarakri, ef ske mætti, að vjer bærum ávöxt til eilífs lífs, æ! láttu þína náð ekki verða til ónýtis á oss. Þú hefur enn látið nýtt náðarár upprenna yfir oss; æ! styrktu oss til að verja því betur en hinum liðnu æfinnar árum. Þú telur öll vor höfuðhár og þú telur líka alla vora daga; æ! kenndu oss einnig að telja þá rjettilega, og verja þeim stundum æfinnar vel, sem þinni speki þóknast enn að gefa oss. Þú einn veizt, hvort þær verða margar eða

fáar; þú einn veizt, hvort vjer fáum lifað þetta nýja ár til enda, eða hvort það á að verða vort seinasta æfiár hjer á jörðunni; en hvort heldur verður, hvort heldur vjer lifum eða deyjum, þá láttu oss tilheyra þjer í lífi og dauða. Já í lífi og dauða felum vjer oss með lífi og sál þinni miskun á hendur, í Jesú nafni. Amen.

## Bæn á skírdag.

Eilífi Guð, miskunsami faðir! Vjer þökkum þjer af öllu hjarta fyrir þína óendanlegu gæzku, sem kom þjer til að framselja í dauðann þinn eingetinn son, drottinn vorn Jesúm Krist, og ljezt hann friðþægja fyrir vorar syndir. Vjer þökkum þjer af öllu hjarta fyrir það, að þú með hans heilögu kvöldmáltíð gjörir os hluttakandi í hans blessaða líkama og blóði, fullvissar oss um þína föðurlegu náð og fyrirgefningu synda vorra, og viðheldur þannig voru andlega lífi og samfjelagi við þig og frelsara vorn. Æ! láttu aldrei þetta dýrmæta náðarmeðal verða til ónýtis á oss, nje oss til dómsáfellis. Hjálpa þú oss til að útrýma úr hjörtum vorum öllum sjálfsþótta og sjálfbyrgingsskap, allri ljettúð og andvaraleysi; láttu þinn anda vekja oss, svo vjer lærum að þekkja

syndir vorar og með innilegri auðmýkt nálgumst þitt náðarborð. Láttu þessa þekkingu synda vorra vekja hjá oss einlæga iðrun og hryggð eptir þjer, svo vjer finnum til þess, hvað vjer erum sekir og ómaklegir þinnar náðar, fáum alvarlega óbeit á syndinni og leitum þinnar miskunar af öllu hjarta. Styrktu sanna og lifandi trú í sálum vorum, og láttu það vera vora hjartans löngun að helga þjer vor hjörtu og allt vort líf, og lifa í samfjelagi við þig og frelsara vorn.

O! herra Jesús Kristur, guðdómlegi og gæzkuríki frelsari vor! Vjer þökkum þjer af innsta grunni hjartans fyrir þá óendanlegu elsku, sem þú hefur auðsýnt oss, með því að gefa sjálfan þig í dauðann fyrir vorar syndir oss til frelsis og sáluhjálpar og með því að stofna hið háleita kvöldmáltíðar sakrament til að gjöra oss hluttakandi í þínu heilaga og guðdómlega eðli. Æ! styrktu oss til að feta í þín heilögu fótspor, með fúsri hlýðni við vorn himneska föður, með einlægri mannelsku, sjálfsafneitun og þolinmæði í þjáningum og mótlæti; æ! láttu oss í sameiningunni við þig finna frið og hvíld fyrir sálir vorar, þangað til vjer í eilífðinni fáum að sjá þig augliti til auglitis og verðum þeirrar óumræðilegu sælu að njót-

andi, sem þú með þínum friðþægjandi dauða hefur oss afrekað. Amen.

## Bæn á föstudaginn langa.

Ó! almáttugi og heilagi Guð! Vjer finnum það og játum, að vjer erum sekir og syndugir og eptir eðlisfari voru reiðinnar börn; og þó hefur þú eilífa gæzkan! meðan vjer ennþá vorum óvinir þínir, elskað oss svo heitt, að þú hefur framselt þinn eingetinn son í dauðann fyrir afbrot vor og syndir vorar. Hann er ljómi þinnar dýrðar og ímynd þinnar veru, og þó ljezt þú hann taka á sig þjóns mynd og lítillækka sjálfan sig, til að frelsa oss frá eilífri glötun og afreka oss eilíft líf. „Vissulega bar hann vor sár og lagði á sig vor harmkvæli. Vegna vorra misgjörða var hann særður og fyrir vorra synda sakir lemstraður; hegningin lá á honum, svo vjer hefðum frið og fyrir hans benjar urðum vjer heilbrigðir“ [1]). Han uppfyllti allt rjettlæti, svo það yrði öllum iðrandi syndurum tilreiknað. Hans sál varð hrygg allt til dauðans, svo að vorar sálir fengju frið og hvíld. Já, himneski faðir! hann leið pínu og dauða á

1) Es. 53, 3.

krossinum til að endurleysa oss frá bölvun lögmálsins og veita oss allskonar andlega og himneska blessun. Hann var talinn með óbótamönnum, svo vjer gætum orðið í tölu þinna barna. Æ! líttu því í náð niður til vor syndugra manna; líttu á friðþægingu þíns eingetna sonar, sem er dáinn vegna vorra synda og upprisinn oss til rjettlætis, og láttu oss ásamt öllum heilögum geta skilizt hvílík að sje breidd, lengd, dýpt og hæð hans óumræðilegu elsku [1]).

Ó! herra Jesú Kristur! þín elska var sterkari en dauðinn! taktu þjer bústað í vorum hjörtum, svo vjer getum elskað þig og þakkað þjer af öllu hjarta. Hjálpa þú oss með krapti þíns krossdauða til að krossfesta holdið með girndum þess og tilhneigingum. Æ! holdið er veikt þó andinn sje reiðubúinn; styrktu oss í hinu andlega stríði við holdið og heiminn og láttu oss bera sigur úr býtum. Láttu þinn dauða standa os lifandi afmálaðan fyrir hugskotssjónum, svo vjer fáum lifandi viðbjóð við syndinni, en lifandi áhuga á að gjöra vora útvalningu vissa. Undir þínum krossi viljum vjer út hella tárum iðrunarinnar upp á hann viljum vjer mæna augum vonarinnar, því þaðan streymir

1) Efés. 3, 18.

hugsvölun og endurnæring inn í hin harmþrungnu og sundurkrömdu hjörtun. Þinn fríðþægjandi dauði sje vort athvarf í lífi og dauða; í þínu nafni viljum vjer lifa og deyja. Amen.

## Bæn á páskum.

Almáttugi, alvaldi Guð! sem uppvaktir þinn eingetinn son, Jesúm Krist frá dauðum, þínu háleita nafni til lofs og dýrðar og til vitnisburðar um, að hann er frelsari og endurlausnari heimsins, vjer þökkum þjer af öllu hjarta fyrir þá óumræðilegu náð og miskunsemi, sem þú með hans upprisu hefur auðsýnt oss. Með hans friðþægjandi dauða hefur þú frelsað oss frá sekt og valdi syndarinnar og með hans upprisu fullvissað oss um þína náð og svipt dauðann sinni beiskju. Lofað og vegsamað sje þitt heilaga nafn! Ó! herra Jesú, drottinn vor og frelsari! þú hefur sigrað dauðann og brotið insigli grafarinnar. Þú ert upprisan og lífið og hefur lífið og ódauðleikann í ljós leitt. Eins og vjer fyrir skemmstu sáum þig í þjóns mynd, hlýðinn allt til dauðans, já allt til dauðans á krossinum, eins sjáum vjer þig nú í þinni guðlegu og himnesku upprisudýrð. Með þinni upprisu hefur þú sannfært oss

um, að þú ert Guðs son, eins og þú sagðist vera, að þú leiðst dauðann heilagur og saklaus fyrir oss synduga og seka, og að vjer í þínu nafni fáum fyrirgefningu vorra synda. Þú ert upprisinn frá dauðum, sem frumgetningur hinna burtsofnuðu, til að fullvissa oss um, að vjer munum einnig upprísa úr vorum gröfum. Þú ert oss því af Guði gefinn til rjettlætis, helgunar og endurlausnar og þú ert eilífur æðsti prestur og árnaðarmaður vor hjá þínum himneska föður. Æ! vek þú oss með þínum anda og gef oss náð til þess að rísa upp af syndanna svefni og ganga í endurnýjungu lífdaganna, svo vjer ávallt getum huggað oss við þína upprisu og treyst því, að þú munir uppvekja oss á efsta degi. Láttu þá sannfæringu jafnan vera lifandi í hjörtum vorum, að sá sem á þig trúir muni lifa þótt hann deyi og að hvorki dauði nje líf geti skilið oss við þig. Í þessari trú viljum vjer glaðir bíða vorrar dauðastundar, glaðir bíða þess, að þú ummyndir líkama vorrar lægingar svo hann verði líkur þínum dýrðar líkama [1]). Þá fáum vjer að sjá þig augliti til auglitis og það mun verða eilíft og óumræðilegt sæluefni að skoða

1) Fil. 3, 21.

þína dýrð og dásemdir. Bænheyr oss, himneski faðir! sakir Jesú Krists, vors upprisna frelsara. Amen.

## Bæn á (kóngs) bænadaginn.

Heilagi alltsjáandi Guð! Í auðmýkt hjartans nálgumst vjer þína eilífu hátign. Frá þjer, himneski faðir! kemur öll góð og öll fullkomin gjöf; þú hefir gefið oss þinn eingetinn son og gefur oss alla góða hluti með honum. Þú hefur gefið oss þitt heilaga og sáluhjálplega orð til þess að það væri ljós á vorum vegum og lampi vorra fóta og þú lætur vort jarðneska líf vera blandað blíðu og stríðu til þess að snúa hjörtum vorum frá hjegóma veraldarinnar og draga þau til þín. Þegar vjer nú íhugum þína náð og þínar velgjörðir við oss, og spyrjum sjálfa oss hvernig vjer færum oss þínar náðargáfur í nyt, æ! þá finnum vjer með angri til breyskleika og ófullkomlegleika vors og megum hryggvir játa, að vor syndaskuld er mikil, já að vjer höfum syndgað í himininn og fyrir þjer. Æ! fyrirgef oss í Jesú nafni allar vorar syndir og ávirðingar. Þú hefur sjálfur sagt, að þú viljir ekki dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sjer og lifi. Snú þú oss, drottinn! snú þú oss til þín, svo vjer getum

höndlað eilíft líf. Gef þú oss harmþrungin hjörtu og sundurkraminn anda, svo þinn andi geti tekið sjer bústað í sálum vorum og vakið hjá oss einlæga iðrun og alvarlegan viðbjóð við syndinni. Þú vilt ekki brjóta hinn brákaða reyr nje slökkva hið blaktanda skar; æ! vertu oss aumum syndurum náðugur og miskunsamur í Jesú nafni. Styrktu og glæddu kærleikann og vonarinnar ljós í vorum hjörtum. Upprættu oss ekki í vorum syndum, heldur gefðu oss náð til að betrast og bera ávexti iðrunarinnar, þú ert sá, sem ávöxtinn gefur; láttu oss bera mikinn ávöxt til eilífs lífs, Þú þekkir vor veiku og óstöðugu hjörtu; þú veizt, að þau eru fúsari á að velkjast í sorgum og áhyggjum þessa lífs en að finna til þeirrar hryggðar, sem kemur frá þjer og leiðir til þín. Hjálpa þú oss með þínum anda til að sigra vort holdlega og veraldlega hugarfar, til að vinna sigur trúarinnar og þjóna þjer í anda og sannleika. Æ! sendu oss anda bænarinnar, svo vjer leitum þín meðan þig er að finna og áköllum þig meðan þú ert oss nálægur; sendu oss anda árvekninnar, svo vjer ekki sofnum í syndinni, heldur verkum vora sáluhjálp með ugga og andvara og reynumst þjer

trúir allt til dauðans. Bænheyr oss í Jesú nafni. Amen.

## Bæn á uppstigningardaginn.

Gæzkuríki, himneski faðir! Á þessum degi stje þinn eingetinn son, frelsari vor Jesús Kristur upp í hæðirnar til þín, hvaðan hann var kominn til að endurleysa oss synduga menn. Leyf þú oss einnig, sem köllum oss hans lærisveina, að lypta hjörtum vorum upp til þín, til að biðja og vegsama þitt heilaga nafn. Ó, vor Guð! þegar vjer lyptum augum vorum til himins og virðum fyrir oss öll þín dásemdarverk, allan hinn óteljandi himinhnatta fjölda, sem almætti þitt og alvizka hefur myndað og sem þú lætur ganga eptir fastsettum lögum, æ! þá finnum vjer til þess í hjörtum vorum, að frá þjer streymir öll fylling og fegurð og óendandlegt líf. Og þegar vjer lyptum hjörtum vorum upp til þín, þá finnum vjer einnig til þess, að engu síður dásamleg eru þín almættisundur á náðarinnar himni; því að af einskærri og óendanlegri náð hefur þú látið þinn eingetinn son stofna ríki hjer á jörðunni, himneskt og eilíft ríki og af einskærri náð hefur þú heitið öllum þínum börnum sælufullri og eilífri arfleifð á

himnum. Ó! guðdómlegi frelsari! þú ert farinn til himins í þá dýrð, sem þú hafðir hjá föðurnum fyrir öndverðu; þú ert farinn á undan oss að til búa oss stað. Þjer er allt vald gefið á himni og jörðu; æ! drag þú hjörtu vor til þín og losa þú þau við synd og sorgir og áhyggjur þessa lífs, svo það verði vor æðsta unaðsemd að hafa hugann hjá þjer og umgengni vora á himnum. Og þegar þessi jarðnesku böndin slitna og lausnarstund vor upp rennur, æ! flyt oss þá hjeðan til þín í ríki himnanna, sem er rjettlæti, friður og fögnuður í heilögum anda. Amen.

## Bæn á hvítasunnu.

Ó, þú eilífi andanna faðir! sem á hinni helgu hvítasunnuhátíð úthelltir þínum heilaga anda í hjörtu þinna trúuðu, sendu oss einnig þenna þinn sannleikans og huggunarinnar anda. Æ! láttu hann leiða oss í allan sannleika og kenna oss að þekkja þinn heilaga vilja og sannfæra oss um vora syndasekt; láttu hann hugga hin hrelldu og harmþrungnu hjörtu, og veita þeim hvíld og frið. Þinn heilagi andi taki sjer stöðugan bústað í sálum vorum, svo vjer ekki lengur framgöngum eptir holdinu, heldur eptir andanum og hreinsum

oss af allri saurgun holdsins og andans. Ó! þú himneski, heilagi Guðs og Jesú Krists andi! Snú þú hjörtum vorum í hæðirnar og losa þú þau við fjötur syndsamlegra girnda, við sorgir og áhyggjur þessa lífs. Kenn þú oss að þekkja þínar ástgjafir og þakka þær eins og vera ber. Innrættu oss auðmýkt og trúnaðartraust, elsku til Guðs og manna, friðar og eindrægnis anda. Æ! vertu vort ljós í myrkrinu, vort athvarf í lífinu, vor huggun í dauðanum Leið þú oss á hinn rjetta veg til eilífs lífs, svo vjer í þínu himneska ríki syngjum þjer með himneskum tungum lof og dýrð um aldir alda. Amen.

## Bæn á Trinitatis (heilagrar þrenningar) hátið.

Órannsakanlegi, eilífi Guð! þú, sem ert konungur konunganna og drottinn drottnanna, þú, sem einn hefur ódauðleikann og býrð í því ljósi, sem enginn fær til komizt, vjer þökkum þjer í auðmýkt hjartans fyrir það, að þú af einskærri náð hefur opinberazt oss í þínum eingetnum syni, sem er ímynd þinnar veru og ljómi þinnar dýrðar, að þú í honum hefur opinberazt sem eilífur kærleikur og faðir allrar miskunar og að þú hefur opinberazt

oss í þínum heilaga anda sem sannleikans og heilagleikans eilífa uppspretta. Æ! láttu þinn anda taka sjer bústað í vorum anda, svo vjer getum endurfæðzt og orðið heilagir eins og „sá, sem oss hefur kallað”; úthelltu þinni heilögu elsku í vor hjörtu, svo vjer fáum viðbjóð við syndinni og öllu því, sem þjer er mótstæðilegt og það verði vor æðsta unaðsemd að úthella hjörtum vorum fyrir þjer í bæninni og breyta eptir þínum blessuðu boðum, sem öll miða til vorrar eilífu sáluhjálpar. Æ! drag þú hjörtu vor til þín frá synd og solli veraldarinnar, svo vjer lærum að hafa umgengni vora á himnum, og verðum fyrir þína náð hreinir og helgaðir þegar vjer á síðan mætum frammi fyrir dómstóli þinnar dýrðar. Þjer heilagi, þríeini Guð sje lof og dýrð fyrir það, að þú í þínu orði hefur opinberað oss þína eilífu hátign, fyrir alla þá náð og allar þær velgjörðir, sem þú hefur veitt oss fyrir þinn eingetinn son, drottinn vorn Jesúm Krist. Amen.

## Bæn eptir prjedikun á sunnudögum.

Eilífi himneski faðir! Lofað og vegsamað sje þitt heilaga nafn fyrir alla þá óendanlegu náð og miskunsemi, sem þú

svo ríkulega auðsýnir oss, gef þú oss náð til þess alltaf betur og betur að læra að þekkja ríkdóm þinnar miskunar og gæzku, svo vjer verðum þín trúlynd og hlýðin börn og getum elskað þig af öllu hjarta. Fyrirgef oss í Jesú nafni allar vorar syndir og yfirsjónir, en gef þú oss einnig náð til þess að þekkja þær betur og betur og iðrast þeirra af hjarta. Styrk þú oss í trú, elsku og von og öllum kristilegum dyggðum. Haltu þinni mildiríku verndarhendi yfir þessum söfnuði og láttu þitt heilaga og sáluhjálplega orð búa ríkulega meðal vor og bera hjá oss mikinn ávöxt til eilífs líf. Blessaðu fósturjörð vora með allskonar andlegri og tímanlegri blessun. Blessaðu vorn allramildasta konung og ríkisstjórn hans. Blessaðu þína kristni og láttu þitt ríki meir og meir útbreiðast á jörðunni. Miskuna þig yfir allar þær þjóðir, sem ennþá ráfa í vanþekkingar og villu myrkrum og láttu þær fá að sjá ljós þinna sannleiksorða, svo þær geti tilbeðið þig í anda og sannleika. Miskuna þú öllum þjáðum krossberendum, öllum sjúkum og sorgmæddum, drag þú hjörtu þeirra til þín og þegar þú hefur reynt þá eptir þínu eilífa vísdómsráði, þá veittu þeim hvíld og hugsvölun, svo þeir kannist við þína handleiðslu og

himnesku föðurgæzku og vegsami þitt heilaga nafn. Ó, Guð! gjör þú betur við oss alla, en vjer fáum beðið og vertu oss öllum náðugur og miskunsamur í lífi og dauða. Bænheyr það í Jesú nafni. Amen.

---

# Missiraskipta bænir.

## Bæn á seinasta sumardag.

Algóði himneski faðir! þú upplýkur þinni mildu hendi og seður allar lifandi skepnur með þinni blessun. Æ! einnig vjer megum játa þenna sannleika og þakka þjer af innsta grunni hjartans fyrir allar þær föðurlegu velgjörðir, sem þú hefur veitt oss á þessu út líðanda sumri eins og alla um liðna æfi vora. þín almættis hönd hefur viðhaldið voru veika lífi og hlíft oss við öllum slysum og háskasemdum; þín örlætishönd sendi oss dögg af himni og frjófsamar árstíðir og blessaði vora bjargræðisvegu, og þín heilaga náðarhönd hefur enn sem fyr leitazt við að draga oss til þín og leiða oss til eilífs lífs. Ó! hver fær útmálað þína eilífu náð? Hver

getur upp talið alla þína náðarríku velgjörninga? Vjer dauðlegir og skammsýnir menn sjáum allt í þoku og ráðgátu, enn sjáum þó, að sjerhver dagur og sjerhver stund er vottur um þína óendanlegu föðurgæzku, já, að þetta líf er eins og hið eilífa lífið náðargjöf þín í drottni vorum Jesú Kristi. Æ! drottinn! hjálpa þú oss til að helga þjer þetta vort líf, svo vjer getum lifað því æðra andlega lífi, lífinu í þjer, sem er hafið yfir allar breytingar tímans, svo vjer hættum að festa hug og hjörtu við hina tímanlegu og hverfulu hluti, en elskum þig af öllu hjarta og getum af öllu hjarta treyst þjer og falið oss þinni forsjón á hendur. Vertu vort skjól og skjöldur, vor líkn og athvarf á komanda vetri. Þín eilífa náð og þinn blessaði friður sje með oss í lífi og dauða, um tíma og eilífð. Bænheyr það í Jesú nafni. Amen.

## Bæn á fyrsta vetrardag.

Eilífi og óumbreytanlegi Guð! mildiríki himneski faðir! Þú lifir frá eilífð til eilífðar og ert æ hinn sami, því hjá þjer er ekki umbreyting nje umbreytingarskuggi. En vjer erum dauðlegir, veikir og vanmáttugir, háðir tímans og breyt-

inganna lögmáli. Straumur tímans hrífur oss með sjer og flytur oss innan lítils tíma framm í dauðans og eilífðarinnar djúp. Fyrir þjer, drottinn! eru þúsundir ára eins og eitt augnablik, en fyrir oss er sjerhvert missiri talsverður hluti þessa vors stutta hjervistartíma. Þess vegna finnur sál vor hvergi hvíld og frið nema hjá þjer, í trúnni á þig, elskunni til þín og voninni á þig, og þess vegna er það eilíft líf, að þekkja þig einn sannan Guð og þann, sem þú út sendir Jesúm Krist. Æ! himneski faðir! vertu oss nálægur með þinni náð á þessum nýbyrjaða vetri; haltu þinni almáttugu verndarhendi yfir oss og frelsaðu oss frá öllu illu. Blessa þú vorn vetrarforða og láttu oss neyta þinna gjafa með nægjusemi og þakklátu hjartalagi við þig gjafarann allra góðra hluta. Láttu þitt heilaga orð vera ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta í vetrarins myrkrum, svo vjer framgöngum eins og ljóssins börn. Láttu oss mitt í vetrarkuldanum vera brennandi í andanum og stöðuga í bæninni. Æ! veturinn minnir oss á dauðann; láttu umhugsun um dauðann sífellt minna oss á að búa oss rjettilega undir burtför vora hjeðan og verka vora sáluhjálp með ótta og andvara. Þú einn veizt, hvort vjer fáum af lifað þenna

vetur; en ef vjer höldum oss stöðuglega við þig, þá heyrum vjer þjer til hvort sem vjer lifum eða deyjum og þegar vjer höfum þig að eins, drottinn! þá hirðum vjer hvorki um himin nje jörð, þá getum vjer ókvíðnir tekið sjerhverjum tímaskiptum og glaðir gengið á móti dauða vorum, því þá höfum vjer höndlað hið eilífa lífið og þú munt flytja oss frá dauðanum til lífsins. Svo byrjum vjer þá veturinn í þínu náðarnafni, láttu oss einnig lifa hann í þínu nafni, svo vjer fáum endað hann í sameiningu við þig, annaðhvort hjer, eða í þínu dýrðarríki á himnum. Bænheyr oss í Jesú nafni. Amen.

## Bæn á seinasta vetrardag.

Æ! minni erum vjer, drottinn! allri þinni miskun og trúfesti! Þetta megum vjer af hjarta játa, þegar vjer nú rennum huganum yfir hinn útlíðanda vetur og virðum fyrir oss þína gæzku og vorn óverðugleik. Þú hefur hlíft oss, verndað oss og alið önn fyrir oss allt framm á þenna dag. Hvern morgun hefur þín náð verið ný og fersk yfir oss og á hverjum degi hefðum vjer getað þreifað á þinni föðurlegu handleiðslu, ef vjer hefðum gefið

gaum að því og veitt því eptirtekt. En æ því miður hefur enn sem fyrri orðið ofmikill skortur á þessu fyrir oss. Hversu opt höfum vjer ekki á þessum út líðanda vetri verið tregir til að lypta hjörtunum upp til þín með bæn og þakkargjörð? Hversu opt hefur ekki vor bænaiðja verið köld og kærleikslaus? Hversu opt höfum vjer ekki nálgazt þig með vörunum, en hjörtu vor verið langt í burtu? Hversu opt hefur oss ekki legið við að vera óánægðir og mögla yfir þinni stjórn og handleiðslu, þegar oss bar eitthvað ógeðfellt að höndum? Æ! vjer höfum allir syndgað og brotið þín boðorð, ef ei vísvitandi og af ásettu ráði, þá í bráðræði og af breyskleika; vjer höfum allir unnið til hegningar og oss skortir alla þá hrósun, sem fyrir þjer gildir. En vjer flýjum til þinnar eilífu náðar og biðjum þig í Jesú nafni, að fyrirgefa oss allar vorar syndir og yfirsjónir, en minnast vor eptir þinni miklu miskunsemi. Yfirgefðu oss ekki og slepptu ekki þinni verndarhendi af oss, heldur virztu enn í náð að líta til vor og gæta vor á hinu komanda sumri. En um fram allt, láttu sjerhvert fótmál er vjer stígum á æfinnar skeiðfleti gjöra oss æ guðræknari og þjer æ þóknanlegri, svo vjer við enda þessara vorra hjervistar-

daga förum frá dauðanum til lífsins og erfum hið eilífa sælulífið hjá þjer og frelsara vorum Jesú Kristi. Bænheyr oss í hans nafni. Amen.

## Bæn á fyrsta sumardag.

Frá þjer, eilífi miskunsemdanna faðir! kemur öll góð og öll fullkomin gjöf. Þú ert tímans höfundur og stjórnari; þú myndar sumar og vetur, hita og kulda, blítt og strítt; já þú viðheldur og stjórnar öllum hlutum með almætti, speki og gæzku. Enn er einn vetur æfi vorrar liðinn og nýtt sumar upprunnið. Lof og dýrð sje þjer, líknsami faðir! fyrir hinn liðna tíma, fyrir þína mildiríku handleiðslu á oss þenna umliðna vetur. Lof og dýrð sje þjer fyrir hið blíða og hið stríða, sem fram við oss kemur; allt eru það föðurlegar velgjörðir og föðurlegar bendingar. Þú lætur hið nýja sumar veita náttúrunni nýtt fjör og líf og þína sól upprenna yfir rjettláta og rangláta. Æ! láttu einnig guðrækni vora fá nýtt fjör og líf með þessu nýja sumri, svo vjer verðum samtaka hinni ytri náttúru í að bera vitni um þína hátign og þínar dásemdir. Láttu sól þinnar miskunar skína skært og fagurt yfir oss á náðarinnar himni og láttu

ylgeisla hennar lífga og verma vor dauðu og köldu hjörtu, svo að vort kristilega trúarlíf beri ríkulegan ávöxt. Þú ert sá, sem ávöxtinn gefur bæði í náttúrunnar og náðarinnar ríki. Blessa þú oss þetta nýbyrjaða sumar af ríkdómi þinnar náðar; blessa þú sjerhvert verk, sem vjer vinnum í þínum ótta; þín náð og blessun fylgi oss, hvar sem vjer erum og hvert sem vjer förum. Láttu sumarsins blíðu daga glæða hjá oss elsku til þín og þakklæti við þig, og hina stríðu kenna oss kristilega þolinmæði og undirgefni undir þinn blessaðan vilja. Láttu þetta nýja sumar, þenna nýja náðartíma miða til að mennta og undirbúa oss rjettilega undir hinn eilífa uppskerutíma, svo vjer ekki einungis hugsum um, að afla oss tímanlegra gæða, heldur miklu fremur ástundum að safna andlegum og himneskum fjársjóðum. Vertu vor Guð í lífi og dauða og gef þú oss gott og blessað sumar í Jesú nafni. Amen.

# Sakramenta bænir.

---

## Bæn við skírnina.

Almáttugi, eilífi Guð! mildiríki himneski faðir! Láttu þína náð og blessun fylgja þessu unga barni alla þess ókomnu æfidaga. Hafi þín eilífa speki ætlað því, að dvelja nokkra stund hjer á jörðunni, þá láttu það ekki einungis vaxa að aldri, heldur að vizku og náð hjá þjer og mönnum. Upplýstu það með þínu orði og þínum heilaga anda, svo það læri að þekkja þig einn sannan Guð og þann, sem þú útsendir, Jesúm Krist, læri að þekkja þær ómetanlegu náðarvelgjörðir, sem þú hefur veitt því með því að gjöra það að þínu barni og erfingja eilífs lífs. Æ! úthelltu þinni heilögu elsku í hjarta þess og gróðursettu það í kærleikanum, svo það elski þig og allt, sem er gott og þjer þóknanlegt, en hati syndina og allt óguðlegt athæfi. Haltu því stöðuglega við þig, svo að hvorki líf nje dauði fái slitið það úr þinni hendi, heldur verði það þjer hlýðið og trútt allt til dauðans og eignist þá lífsins kórónu, sem þú hefur þínum trúlyndu börnum fyrirhugað. Bænheyr það í Jesú nafni. Amen.

## Skriptamálin (með nokkrum breytingum.)

Æruverðugi faðir í Kristi! Jeg bið yður, að heyra mína játningu, uppörfa mína guðrækni, áminna mig með guðsorði, hugga mig með þess fyrirheitum og fullvissa mig um fyrirgefningu synda minna í Jesú nafni, þegar jeg iðrast þeirra af hjarta.

Jeg aumur og syndugur maður játa trú mína á Guð almáttugan og viðurkenni hans miklu dásemdarverk, en afneita synd og öllu óguðlegu athæfi. Jeg meðkenni, að jeg er sekur í óteljandi syndum og hefi brotið á móti Guðs boðum og vilja í hugsunum, orðum og verkum, og þá sjaldan jeg hefi rjett einlæglega viljað gjöra hið góða, hefur þó hið illa jafnan við mig loðað. Æ! þetta angrar mig nú af hjarta og því vil jeg feginn iðrast allra minna synda, láta af þeim og sjá við þeim með rjettri trú og trausti til Guðs miskunar fyrir frelsara minn Jesúm Krist. Jeg endurnýja nú alvarlega það heit í augsýn alltsjáanda Guðs að láta mjer daglega fara fram í öllu góðu og sífellt hafa frelsarans heilaga dæmi fyrir augunum, og til að styrkja mig í þessu áformi ætla jeg nú í dag hátíðlega að endurminnast hans friðþægjandi dauða. Guð

virðist að gefa mjer náð sína til þess í Jesú nafni, amen.

## Bæn fyrir skriptir.

Ó, Guð! kenn þú mjer að prófa mig rjettilega; láttu þinn heilaga anda vekja mig og sannfæra mig um syndir mínar, svo jeg geti iðrazt þeirra af hjarta; láttu hann upplýsa mig og leiða mig í allann sannleika, svo eg sjái viðurstyggð syndarinnar og fái viðbjóð við henni; láttu hann sundur kremja hjarta mitt, svo jeg með angri og trega finni til minnar syndasektar og geti í trúnni á frelsara minn flúið til þinnar miskunar og náðar. Æ! drottinn! Þú þekkir mig og allan minn breyskleika; kendu mjer að þekkja sjálfan mig, svo jeg dragi mig ekki á tálar í mínum sáluhjálparefnum, nje fegri mínar yfirsjónir, heldur framkomi fyrir þig með hræsnislausu hugarfari, í dag og æfinlega, amen.

## Bæn eptir skriptir.

Lof og dýrð sje þjer, himneski faðir! fyrir alla þína náð og miskunsemi við mig auman og sekan syndara. Þú hefur í þínu heilaga orði heitið mjer fyrirgefningu allra minna synda fyrir Jesú Krists skuld, ef jeg iðrast þeirra af hjarta og

ástunda framvegis að hlýða þínum boðum. Æ! þessi fullvissa huggar mitt hrellda hjarta og því vil jeg af öllu hjarta hata syndina, en leitast við að lifa þjer og lausnara mínum. Láttu þá heilögu náðarmáltið, sem jeg ætla að neyta í dag, verða kröptugt meðal til að glæða og styrkja þessi mín betrunaráform, svo þau aldrei framar líði mjer úr minni, heldur verði jeg þjer og frelsara mínum sameinaður í lífi og dauða, amen.

## Bæn fyrir bergingu.

Æ! góði, himneski frelsari! Nú geng jeg inn að þínu náðar borði til að neyta þíns heilaga líkama og blóðs. Gef þú mjer náð til þess, að ganga þangað sem verðugur borðgestur; gef þú mjer náð til þess að finna til þess og hrærast af því innst í hjarta mínu, að þú af óendanlegri elsku gekkst í dauðann fyrir mig til að afplána mína syndasekt og afreka mjer eilíft líf. Láttu umhugsun um þinn eilífa kærleika gagntaka mína sál og sinni, svo jeg helgi þjer hjarta mitt og alla mína lífs og sálar krapta. Æ! kom þú nú til mín og taktu þjer sjálfur bústað í sálu minni, svo jeg verði eitt með þjer og lifi og deyi í þínu nafni, amen.

## Bæn eptir bergingu.

Lofaður sjertu, lausnari minn! fyrir alla þá óendanlegu náð og miskunsemi, sem þú hefur auðsýnt mjer, aumum og óverðugum. Þú hefur afrekað mjer fyrirgefningu syndanna, Guðs náð og eilífa sáluhjálp. Æ! þú veizt, að jeg vil elska þig af öllu hjarta og leitast við að feta í þín heilögu fótspor; en þú veizt líka, að holdið er veikt, þó andinn sje reiðubúinn og þekkir mitt óstöðuga hjarta; vertu máttugur í mínum veikleika, styrktu mig í stríðinu við freistingarnar og gjör þú þann enda á þeim, að jeg fái staðizt og borið sigurinn úr býtum. Ó! láttu mig aldrei gleyma þjer nje Guði mínum, svo jeg í öllu mínu dagfari sýni það leynt og ljóst, að jeg sje þínu lærisveinn og hans barn. Gróðursettu mig í þínum himneska kærleika, svo að hvorki líf nje dauði geti skilið mig við þig, heldur verði jeg eitt með þjer að eilífu, amen.

## Bænir þeirra, sem eru þjónustaðir.

### a. fyrir bergingu.

Ó, Jesú, drottinn minn og frelsari! Vertu hjá mjer og vertu mjer náðugur. Með þinni heilögu náðarmáltíð læknar þú hinn

djúpu hjartasárin, með henni græðir þú meinsemdir sálarinnar og styrkir vora veiku trú. Æ! miskuna þú mjer og láttu mig verðuglega neyta þíns líkama og blóðs og verða hluttakandi í því frelsi, sem þú hefur afrekað oss. Jeg er veikur og vanburða og get ekki beðið þig eins heitt eins og jeg vildi. Æ! vorkenndu veikleika mínum og láttu þína friðþæging afplána mínar syndir. Jeg held mjer fast við það fyrirheit þitt, að þú viljir ekki brjóta hinn brákaða reyr nje slökkva hinn líttloganda hörkveik. Hugsvalaðu mjer með þinni náð, svo jeg geti lofað þig og vegsamað um alla eilífð, amen.

### b. eptir bergingu.

Mildiríki frelsari! Nú hefur þú enn á ný tekið mig að þjer og gefið mjer þinn líkama og þitt blóð og fullvissað mig um fyrirgefningu synda minna og eilífa sáluhjálp. Hvernig get jeg aumur og vesall maður þakkað þjer, eins og vera ber, þessa óumræðilegu velgjörninga? Æ! þigg þú náðarsamlega mitt veika hjartans þakklæti. Láttu mig styrkjast í mínum innra manni þó minn ytri maður hrörni; láttu mig tilheyra þjer, og lifa og deyja í samfjelagi við þig, amen.

## Bæn um trúna.

Almáttugi og eilífi Guð, miskunsemdanna himneski faðir! Þú, sem af einskærri náð hefur útvalið og kallað mig til þíns ríkis, æ! styrktu mig í trúnni; glæddu ljós trúarinnar í sálu minni, svo að efasemdanna myrkur aldrei villi sjónir fyrir mjer. Láttu þá sannfæringu vera óbifanlega í hjarta mínu, að þú af þinni eilífu náð og miskunsemi hefur sent þinn eingetinn son Jesúm Krist í heiminn til að friðþægja fyrir heiminn við þig og afplána mína syndasekt og láttu þessa trú vekja hjá mjer innilega löngun eptir að breyta eptir þínum heilögu boðum og hans heilaga dæmi, svo jeg af öllum kröptum leitist við, að sýna trú mína í verki, í elsku til þín og og náunga míns. Ó Guð! láttu mig í lifandi trú gjöra mína útvalningu vissa og höndla eilíft líf. Bænheyr það í Jesú nafni, amen.

## Bæn um kristilegt hugarfar.

Eilífi, góði Guð! Af þinni óendanlegu miskunsemi hefur þú frelsað mig úr vantrúarinnar og villunnar myrkrum og leitt mig inn í þitt náðarríki. Æ! fullkomna þú í mjer þetta þitt miskunarverk, sem þú hefur byrjað. Láttu ljós þinna sáluhjálp-

legu sannleiks orða lýsa mjer svo jeg framgangi sem ljóssins barn. Hjálpa þú mjer, svo jeg ætíð hugsi, tali og gjöri það sem þjer er þóknanlegt. Hjálpa þú mjer til að krossfesta holdið með girndum þess og tilhneigingum; hjálpa þú mjer til að vaka og biðja, svo jeg fyrir bænina fái krapta til að sigra allar syndsamlegar freistingar. Úthelltu þinni elsku í sálu mína, svo jeg geti elskað þig af öllu hjarta og náunganu eins og sjálfan mig. Vertu máttugur í mínum veikleika, náðugur í mínum breyskleika, fyrir Jesú Krists skuld, amen.

## Bæn um að geta beðið rjettilega.

Miskunsami Guð himneski faðir! Frá þjer kemur öll fullkomin gjöf, einnig sú, að geta beðið þig rjettilega. Æ! þú þekkir hviklyndi og veikleika hjarta míns og veizt, að þegar jeg ætla að biðja þig og þakka þjer, þá vill hugur minn svo opt hvarfla hingað og þangað og hugsanir mínar verða hjegómlegar. Virztu, drottinn! að senda mjer anda náðar og bænar; láttu mig verða gagntekinn af lotningu fyrir þinni eilífu hátign og innilegu þakklæti fyrir allar þínar óteljandi velgjörðir; láttu hjarta mitt verða sundurkramið af hryggð og angri yfir minni syndasekt; láttu mig setja

alla mína von til þín og þinnar miskunar, í Jesú nafni, svo að jeg nálgist þig með auðmjúku, iðrandi og trúuðu hugarfari. Kenn þú mjer að biðja í Jesú nafni, með hans hugarfari og í trúnni á hans friðþægingu. Ljettu af mjer öllum áhyggjum og sorgum þessa lífs og losa þú hjarta mitt við heimselskunnar og eigingirninnar syndsamlegu fjötra, svo jeg varpi allri minni áhyggju upp á þig og biðji þig helzt um hin andlegu og eilífu gæði. Styrktu mig til að tilbiðja þig með rjettum anda í Jesú nafni, amen.

## Bæn fyrir messu.

Almáttugi, himneski Guð og faðir! Þú hefur gefið oss þitt heilaga og sáluhjálplega orð til þess, að það væri ljós á vorum vegum og lampi vorra fóta. Virztu náðarsamlega að upplýsa og helga vor hjörtu, svo vjer skiljum þitt orð, heyrum það með andakt og geymum það í góðum og siðsömum hjörtum. Láttu það bera mikinn ávöxt hjá oss, oss til sáluhjálpar, en þínu heilaga nafni til lofs og dýrðar, í Jesú nafni, amen.

## Bæn eptir messu.

Þökk sje þjer, algóði faðir! fyrir það

að þú enn þá einusinni hefur gefið oss tækifæri til að heyra þitt blessaða lífsins orð. Æ! virztu nú einnig af náð þinni að gróðursetja það í hjörtum vorum, svo það hafi helgandi áhrif á hugarfar og líferni vort. Láttu það lífga vora elsku til þín og vort trúnaðartraust á þjer og gjöra oss hæfilega fyrir þá eilífu sáluhjálp, sem þinn eingetinn son, frelsari vor Jesús Kristur hefur oss afrekað, amen.

## Borðbænir.

### Bæn fyrir borðun.

Drottinn jeg þakka þjer að þú hefur gefið mjer mat og drykk til saðningar og svölunar fyrir þetta mitt líkamlega líf. Blessa þú mjer þessar þínar gjafir og láttu þær minna mig á þau andlegu og eilífu gæði, sem jeg fyrst og fremst á að sækjast eptir, mjer til sáluhjálpar í Jesú nafni, amen.

### Bæn eptir borðun.

Lof og dýrð sje þjer, góði Guð! fyrir mat og drykk og allar góðar gjafir, sem þú veitir mjer af ríkdómi þinnar náðar. Seð þú einnig sálu mína með krapti þíns heilaga og sáluhjálplega orðs, svo jeg í

sannri og lifandi trú tilbiðji þig í anda og sannleika og ástundi að hlýða þínum boðum. Bænheyr það í Jesú nafni amen.

## Bæn á afmælisdegi.

Eilífi miskunsami Guð! Fyrir þína náð hefi jeg lifað allt fram á þenna dag og jeg þakka þjer nú af innsta grunni hjartans fyrir mínar liðnu lífsstundir og fyrir alla þá óteljandi velgjörninga, sem þú hefur auðsýnt mjer frá því jeg kom í þenna heim. Lofa þú drottinn sála mín! og allt hvað í mjer er, vegsami hans heilaga nafn! Ætti jeg ekki að lofa og vegsama þig, Guð minn góður! sem ekki hefur einungis blessað mig með svo mörgum tímanlegum gæðum, heldur einnig leitt mig til þekkingar á þjer og gjört mig að þínu barni og erfingja eilífs lífs. Þín mildiríka náðarhönd hefur leitt mig á hinum liðnu æfinnar árum og föðurlega gætt mín og verndað mig. Æ! minni er jeg drottinn! allri þinni miskun og trúfesti! Þín almættishönd hefur frelsað mig úr hættun og háskasemdum, og hlíft mjer við svo mörgu andstreymi og mótlæti lífsins; þín gæzka hefur vakið mig með bendingum og áminningum og huggað mig með þínum náðar fyrirheitum. En, hvernig get jeg minnzt þinnar miskunar, án þess einn-

ig að minnast míns óverðugleika og minna synda? Æ! fyrirgef þú mjer allar mínar syndir í Jesú nafni! og gef þú mjer náð til þess hjer eptir að lifa í sannri trú og elsku, og halda mjer stöðuglega við þig. Jeg veit ekki hve margir mínir ókomnu æfidagar muni verða; þú einn veizt það drottinn minn! því þú ert herra lífsins og dauðans og úthlutar vorum æfidögum eptir þinni eilífu speki og gæzku. Verði á mjer þinn blessaður og náðugur vilji; jeg beygi mig undir þína voldugu hönd og fel mig með lífi og sálu í þína forsjónar hönd. Æ! gef þú mjer náð til þess í þessu jarðneska og hverfula lífi að höndla hið eilífa og himneska líf. Bænheyr það í Jesú nafni, amen.

## Bæn um kristilega þolinmæði.

Almáttugi góði Guð! þú ert læknir hinna veiku, huggari hinna harmþrungnu, skjól og athvarf hinna yfirgefnu. Þolinmæðinnar og huggunarinnar eilífi Guð! Þú sjer og þekkir vorn veikleika og vort ístöðuleysi og veizt, að vjer getum ekki borið þjáninganna kross án þinnar guðlegu hjálpar, því án þín megnum vjer ekkert. Æ! þess vegna flý jeg til þín og bið þig af öllu hjarta: styrk þú mína veiku trú

og veittu mjer þolinmæði og stöðuglyndi. Gef þú mjer náð til að umbera hirtingu þinnar föðurlegu forsjónar með kristilegri stillingu og jafnaðargeði og láttu mig treysta því staðfastlega, að allt, sem þú lætur mjer að höndum bera, miðar til að draga mig til þín, að það allt miðar til að efla mína sönnu og eilífu farsæld. Láttu mig trúa því staðfastlega, að þú agar þann, sem þú elskar, til þess að vjer ekki skulum festa hug og hjarta við þessa tímanlegu og fallvöltu hluti, heldur treysta þjer einum og í auðmýkt hjartans setja alla vora von til þín. Láttu þá tilhugsun jafnan vera mína hjartans huggun, að mótlætingar nálægs tíma eru ljettvægar í samanburði við þá eilífu dýrð, sem þú hefur þínum börnum fyrirhugað. Láttu mig ætíð hafa dæmi míns heilaga frelsara fyrir augunum og muna eptir því, hvernig hann með himneskri þolinmæði og óendanlegri undirgefni undir þinn vilja bar allar þrautir og þjáningar. Og hvað eru þó mannlegar raunir nema ekkert í samanburði við þær hörmungar og píslir, sem hann varð að reyna! Æ! þú leggur engum þyngri byrði á herðar en þú gefur honum krapta til að bera; hjálpa þú mjer því, eilífi Guð! með þínum krapti og sendu mjer anda máttarins og stillingarinnar, svo jeg í sjerhverri neyð

þakki þjer og vegsami þitt heilaga nafn. Gef þú mjer náð til að líða með Kristi, svo jeg megi með honum dýrðlegur verða og öðlist þá óumræðilegu sælu, sem ekki hefur auga sjeð, ekki eyra heyrt og í einskis huga komið, amen.

## Bæn hins aldurhnigna.

Lof og dýrð sje þjer, eilífi góði Guð! sem svo dásamlega hefur leitt mig til minna elliára. Frá því jeg fæddist og allt til þessarar stundar hefur þú veitt mjer óteljandi náðarvelgjörðir. Allt á jeg þinni náð að þakka og allt mitt umliðna líf er vottur um þína óendanlegu miskunsemi. Sjerhver dagur flutti mjer nýja velgjörninga frá þinni mildiríku föðurhendi; en, æ! á sjerhverjum degi óx einnig mín syndasekt. Gef þú mjer nú náð til þess, að jeg með auðmjúku og sundurkrömdu hjarta geti kannazt við syndir mínar og iðrazt þeirra. Kenn þú mjer, Guð minn góður! hvernig jeg á að bæta og lagfæra það sem jeg ennþá get bætt og lagfært og gef þú mjer þrek og krapta til að sigra sjerhvern syndsamlegan vana og allar syndsamlegar girndir og tilhneigingar, Hjálpa þú mjer til þess, í stöðugri trú og undirgefni undir þinn blessaða vilja að bera ellinnar an-

marka og þann veikleika, sem henni er samfara. Þú hefur umborið allan minn breyskleika með óendanlegri þolinmæði; hjálpa þú mjer, drottinn! til að vera þolinmóður, glaður og ánægður í þínum ótta. Vertu hjá mjer, því að kvölda tekur og á daginn líður og láttu það sem eptir er æfidagsins vera þjer einum helgað, svo þegar lausnarstund mín upprennur, geti jeg með sonarlegri djörfung og í míns frelsara Jesú nafni falið minn anda í þínar föðurhendur. Friðarins eilífi Guð! láttu þjón þinn fara hjeðan í friði, í friði við þig, sjálfan mig og aðra menn. Láttu dauða minn verða vægan og viðskilnað minn sáluhjálplegan og flyt þú mig í þínum eilífa friðar faðmi á friðarins og sælunnar land. Bænheyr það í Jesú nafni, amen.

## Bæn húsbænda.

Himneski mildiríki Guð og faðir!. Frá þjer kemur öll góð og öll fullkomin gjöf. Þökk sje þjer fyrir alla þína náð og allt hið góða, sem þú hefur veitt mjer í andlegum og tímanlegum efnum. Blessa þú í Jesú nafni heimili mitt og alla, sem þín föðurlega miskunsemi hefur falið minni umsjón á hendur. Gef þú mjer náð til

að lifa þjer þóknanlega og vera þeim til fyrirmyndar í því, sem gott er. Blessa þú vinnu vora og bjargræðis útvegi; gef þú oss heilsu, frið og farsæld en einkum kristilega þolinmæði í þjáningum og undirgefni undir þinn heilaga vilja. Þjer, drottinn! fel jeg mig og mína og allt hvað mitt er, í Jesú nafni, amen.

## Bæn hjóna.

Drottinn minn og frelsari! helga þú okkar hjónaást með þínum himneska kærleikans anda, svo hún verði hrein og andleg og laus við alla eigingirni og reiði, alla þverúð og harðúð hjartans. Kenn þú okkur að elskast eins og þú hefur elskað oss. Hjálpa þú okkur, eilífa elskan! til að halda eindrægni andans í bandi friðarins, svo að öll okkar sambúð verði þjer þóknanleg, öðrum til góðrar fyrirmyndar og sjálfum okkur til tímanlegrar og eilífrar forsældar. Gef þú okkur náð til þess, að leiðrjetta hvert annað með hógværð og stillíngu, umbera hvort annars breyskleika með kristilegri þolinmæði, og bera hvort annars byrði með kærleiksfullu og viðkvæmu hjartalagi. Ó, drottinn! sameina þú sálir okkar í þinni elsku, svo hún verði sterkari en dauðinn og fylgi okkur

út yfir gröf og dauða inn á sælunnar og friðarins land, amen.

## Barna bæn.

Ó, Jesú, góði frelsari! þú tókst börnin þjer í fang, blessaðir þau og sagðir, að þeim heyrði guðsríki til. Æ! taktu mig að þjer og blessaðu mig; hjálpa þú mjer til að vera gott og hlýðið barn, svo jeg hvorki hugsi, tali nje gjöri það sem er ljótt eða syndsamlegt; hjálpa þú mjer til að vaxa í náð hjá Guði og mönnum. Gef þú mjer skilning og löngun eptir að læra það sem gott er, löngun eptir að lesa og heyra þitt heilaga orð og hlýða því með andakt og eptirtekt. Láttu mig muna eptir að biðja þig opt og innilega, svo jeg haldi mjer stöðuglega til Guðs og geti elskað hann og þig af öllu hjarta. Æ! himneski faðir! Vertu faðir minn í Jesú nafni; vernda þú mig og frelsa þú mig frá öllu illu; láttu mig æfinlega vera þitt barn, svo jeg erfi það himneska ríki, sem þú hefur þínum börnum heitið. Bænheyr það i Jesú nafni, amen.

## Bæn foreldra.

Miskunsami Guð og faðir! faðir allra, sem börn kallast bæði á himni og jörðu.

Kenn þú mjer að biðja fyrir börnum mínum; kenn þú mjer að gróðursetja elsku til þín í þeirra hjörtum, en uppræta hjá þeim illgresi syndarinnar; hjálpa þú mjer til að ganga á undan þeim með góðu eptirdæmi og leiða þau á dyggðanna veg. Æ! vek þú í sálum þeirra góðar hugsanir og guðrækilegar tilfinningar og haltu þeim stöðuglega við þig, svo þau aldrei spillist af ginningum heimsins, nje leiðist afvega af syndsamlegum girndum. Verndaðu, blessaðu og ávaxtaðu þau i öllu góðu og gjör betur við þau en jeg fæ beðið eða skynjað þinni eilífu föðurforsjón fel jeg þau á hendur; láttu þau ekki glatast, heldur reynast þjer trú allt til dauðans, svo þau á síðan beri úr býtum þá lífsins kórónu, sem þú af náð þinni munt gefa öllum þínum trúlyndu börnum. Ó, Guð! vertu minn og þeirra faðir, í Jesú nafni, amen.

## Bæn hjúa.

Góði himneski faðir! Jeg þakka þjer af öllu hjarta, að þú hefur gefið mjer krapta og tækifæri til að afla þess, sem jeg við þarf til viðhalds þessa míns líkamlega lífs, svo jeg eptir þínu boði get neytt míns brauðs í sveita míns andlitis.

Hjálpa þú mjer til að vinna í þínum ótta, með dyggð og trúmennsku við húsbændur mína bæði ljóst og leynt; hjálpa þú mjer til að auðsýna þeim hlýðni og hollustu sjálfsafneitun og þolinmæði í minni köllun. Legg þú þína blessun yfir öll mín verk; styrktu mína krapta og vertu sjálfur í verki með mjer. Gef þú mjer náð til að lifa kristilega, svo jeg eignist eilíft líf og fái þau himnesku verðlaun, sem þú hefur heitið þínum góðu og trúlyndu þjónum, fyrir Jesú friðþægingar sakir. Amen.

## Ferðamanns bæn.

Ó, Guð! í þínu nafni byrja jeg þessa ferð og bið þig í Jesú nafni að vera með mjer og halda þinni almáttugu verndarhendi yfir mjer og afstýra frá mjer öllum slysum og háskasemdum. Æ! þú hefur hingað til náðarsamlega leitt mig; en því miður hefi jeg einatt gleymt að þakka þína handleiðslu eins og vera ber; fyrirgef þú mjer af miskun þinni allt gáleysi mitt og gleymsku og gef mjer náð til þess, hjer eptir að verða þakklátari og betri. Vertu minn leiðtogi á lífsins vegi; vertu með mjer, hvar sem jeg er og hvert sem jeg fer; vertu mjer náðugur í lífi og dauða. Bænheyr það í Jesú nafni, amen.

## Iðrunar andvarp.

Heilagi Guð jeg hef syndgað í himininn og fyrir þjer. Þegar jeg kem fram fyrir þitt heilaga auglit og hugsa til margfjölda minna synda þá berst og titrar hjarta mitt og sál mín fyllist angist og kvíða. Ó! hversu lengi hef jeg ekki lifað gálauslega og hugsunarlaust um mitt sálarástand og mín eilífu forlög! Hversu lengi hefi jeg ekki syndgað uppá náðina og hugsað, að jeg allt af hefði nógan tíma til iðrunar og apturhvarfs. Kærleikslaus og kaldsinna og vanþakklátur við þig, eilífa gæzkan! hef jeg þegið þínar óteljandi velgjörðir og varið þeim síður en skyldi; þá krapta, sem þú gafst mjer hefi jeg vanbrúkað og burt sóað í holdsins og heimsins þjónustu miklum hluta þess náðartíma, sem þú ljentir mjer til undirbúnings undir eilífðina. Jeg hefi gengið í myrkri; en nú er skýlan dottin frá augum mínum svo jeg sje mína synda eymd. Ó! er það mögulegt, heilagi Guð! að þú getir litið miskunar augum á mitt umliðna líf, sem er svo syndum atað að jeg þori ekki sjálfur að virða það fyrir mjer? Er það mögulegt, að þú getir sameinazt þeirri sál, sem fegin vildi geta umflúið sjálfa sig? Þegar jeg ber líf mitt saman við þitt heilaga

lögmál þá verður allt til að ásaka mig og ógna mjer með dómum þíns eilífa rjettlætis; já, mjer liggur þá við vantrausti og örvæntingu. Eins og jeg áður svæfði sjálfan mig í andvaraleysi með þeirri hugsun, að þú værir ætíð reiðubúinn að taka syndarann til náðar, þegar hann sneri sjer til þín, eins liggur mjer nú við að efast um þína óendanlegu miskunsemi. Áður syndgaði jeg móti þjer með oftrausti; æ! drottinn! hjálpa þú mjer nú svo jeg syndgi ekki móti þjer með vantrausti. Þú hefur sjálfur sagt, að þú viljir ekki dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sjer og lifi og að þú viljir ekki brjóta hinn brákaða reyr, nje slökkva hið blaktanda skar og fyrir Jesú Krists skuld hefur þú heitið öllum iðrandi syndurum þinni náð og synda fyrirgefning. Já jeg vil treysta því að þú munir taka mig enn til náðar og að þú enn hafir þinn miskunar faðm útbreiddan móti mjer aumum og brotlegum syndara. Jeg þarf ekki að vantreysta þinni óendanlegu náð, heldur öllu fremur hreinskilni og staðfestu minnar iðrunar. Hvers góðs má jeg ekki vænta af þinni gæzku, fyrst hún hefur vakið mig af syndanna svefni! Þetta almættis verk þitt á mjer skal styrkja traust mitt á þjer og fylla hjarta mitt elsku og þakklæti. Ó! faðir

miskunsemdanna og Guð allrar huggunar! Hugsvala þú mjer með þinni náð; hreinsa þú og helga þú hjarta mitt og fullkomna þú í mjer hið góða verkið, sem þú hefur byrjað. Styrktu mig til að vaka og biðja og vinna sigur yfir öllu sem vill draga mig frá þjer. Æ! vertu mitt ljós og leiðarvísir; vertu máttugur í mínum veikleika og úthelltu þinni elsku og þínum anda í sálu mína, svo það verði mín æðsta unaðsemd að hlýða þínum heilögu boðum, að hugsa til þín og úthella hjarta mínu fyrir þjer í bæninni. Ó! Guð láttu ekki hið nálæga nje hið ókomna, hvorki líf nje dauða geta skilið mig við þinn kærleika í Jesú Kristi, amen.

## Bæn um sáluhjálplegan dauða.

Ó! þú almáttugi og eilífi herra lífsins og dauðans! Þín náð hefur gefið mjer lífið og viðhaldið því allt fram á þenna dag og þín náð hefur einnig ákveðið, hve lengi jeg eigi að dvelja hjer í þessum dauðans líkama. Þú einn veizt það, góði Guð hvort mínar ólifuðu lífsstundir verða margar eða fáar. Verði á mjer þinn blessaður og vísdómsfullur vilji! Jeg treysti því af öllu hjarta, að þú munir gjöra það eina við mig, sem þú sjer mjer fyrir beztu

og því vil jeg ekki biðja þig um langt líf, heldur um náð til þess að geta lifað kristilega og dáið sáluhjálplega. Æ! hjálpa þú mjer til að höndla lífið í þjer, hið æðra og eilífa lífið og gjöra mína útútvalningu vissa. Láttu umhugsun um dauða, eilífð og dóm aptra mjer frá syndinni og kenna mjer að vaka og biðja. Og þegar lausnarstund mín upprennur, gef þú mjer þá í krapti Jesú friðþægjanda dauða náð til að sigra alla dauðans angist og í hans nafni fela minn anda í þínar föðurhendur. Ó, Jesú! meðtaktu minn anda, amen.

## Bæn fyrir kristilegri kirkju.

Ó! herra Guð, himneski faðir! Láttu þitt ríki, náðarinnar og sannleikans ríki útbreiðast og eflast meir og meir á jörðunni, svo að allar þjóðir læri að þekkja þig einn sannan Guð og þann, sem þú út sendir, Jesúm Krist og fái að reyna krapt þíns eilífa kærleika. Láttu þitt heilaga sannleiksorð hvervetna sýna, að það er þinn kraptur til sáluhjálpar sjerhverjum, sem trúir og láttu þinn heilaga anda vekja og glæða sanna og lifandi trú í hjörtum þeirra, sem orðið heyra, svo þeir beri mikinn ávöxt til eilífs lífs. upprættu alla heiðinglega lesti úr þinni kristni og leiddu

alla villuráfandi á lífsins veg. Æ! láttu alla kristna menn tilbiðja þig í einum anda og meir og meir finna til þess, að þeir eru allir bræður og systur í Jesú Kristi og limir á hans líkama. Æ! virztu að upplýsa alla menn með ljósi þíns anda og helga þá í þínum sannleika: svo þar að lokunum verði eitt sauðahús og einn hirðir og þú verðir allt í öllu. Þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin, að eilífu, amen.

## Bæn í hallæri.

Ó! þú eilífi alheimstjórnari! Þú menntar þjóðirnar í skóla mótlætinganna; þú reynir þín börn eins með hinu stríða sem hinu blíða, allir þínir vegir eru einber miskun og trúfesti. Þú upplýkur þinni hendi og seður allar lifandi skepnur með þinni blessun; æ! drottinn! gef þú oss einnig vort daglegt brauð; láttu ekki náttúruna synja oss þess sem vjer viðþurfum til þessa lífs viðurhalds; styrk þú oss til að leita atvinnu vorrar í þínum ótta og legg þú þína blessun yfir öll vor störf. Vjer finnum nú með angri til þess, að vjer einatt að undanförnu höfum verið vanþakklátir við þig, gjafarann allra góðra hluta, optsinnis þegið þínar náðargjafir í hugsunarleysi og þráfalt varið þeim illa

og sjálfum oss til syndar. Æ! hegndu oss ekki fyrir þetta vanþakklæti vort og þessa vangá vora, heldur fyrirgef oss það eins og hverja aðra synd í Jesú nafni. Láttu þenna reynslunnar tíma kenna oss þakklátsemi og auðmýkt; þolinmæði og undirgefni undir þinn heilaga vilja, svo vjer ekki möglum móti þinni vísdómsfullu stjórn, heldur beygjum oss í auðmýkt undir þína voldugu hönd. Styrktu vort trúnaðartraust á þinni mildiríku forsjón, svo vjer vörpum allri vorri áhyggju upp á þig og treystum því af hjarta, að þegar neyðin er stærst, þá er þín hjálp nálægust. Þjer felum vjer oss og öll vor efni í Jesú nafni. Láttu oss tilheyra þjer í lífi og dauða, amen.

## Bæn við fermingu barna.

Eilífi og almáttugi Guð! algóði himneski faðir! Af þinni óendanlegu náð og miskunsemi hefur þú sent þinn eingetinn og elskulegan son í heiminn og fyrir hann tekið oss synduga menn í sátt við þig. Af óendanlegri náð og miskunsemi hefur þú leitt oss frá myrkrinu til ljóssins og frá dauðanum til lífsins og gjört oss að þínum börnum og erfingjum eilífs lífs. Vertu oss öllum nálægur með þinni

náð og blessun og sjer í lagi þeim ungmennum sem í dag hátíðlega staðfesta skírnarsáttmála sinn við þig. Æ! sendu þeim þinn heilaga anda, anda ráðs og skilnings, sem leiði þau í allan sannleika og láti þau finna til þess, að það er eilíft líf, að þekkja þig einn sannan Guð og þann, sem þú útsendir Jesúm Krist. Gróðursettu þau, himneski faðir! í þínum heilaga kærleika, svo þau elski þig og frelsara sinn af öllu hjarta og leggi alla stund á að hlýða þínum heilögu boðum. Ó! Guð! láttu aldrei elsku til heimsins nje áhyggjur og sorgir koma þeim til að gleyma þjer og sinni eilífu ákvörðun. Haltu þinni verndar hendi yfir þeim, og leiddu þau á þínum vegum og eptir þínu eilífa vísdómsráði yfir allar torfærur þessa lífs. Vertu jafnan þeirra ljós og leiðtogi, styrktu þau í freistingunum, svo þau ekki falli og, ef þau hrasa, þá vertu þeim náðugur og miskunsamur í Jesú nafni. Vertu þeirra skjól og athvarf í þrautum og þjáningum og láttu þau setja alla sína von til þín með auðmýkt og undirgefni undir þinn heilaga vilja. Láttu þau alla æfi muna til þessa hátíðlega dags, muna til þess, að þau hátíðlega heita því að reynast þjer trú allt til dauðans og láttu þessa endurminningu hafa helgandi áhrif á þeirra hugar-

far og alla þeirra breytni, svo þau framgangi sem ljóssins börn og eignist að lokunum það himneska ríki, sem þú frá upphafi veraldar hefir þínum börnum fyrirhugað. Vertu þeirra og vor allra faðir í Jesú nafni, amen.

## Bæn fyrir sjúkum.

Góði Guð! miskuna þú þessum sjúklingi, sem stynur undir krossins þungu byrði. Lina þú hans sáru þjáningar og legg þú honum lið og krapt til að geta borið þær. Sje það þinn náðugur og vísdómsfullur vilji, þá reis þú hann aptur á fætur til þessa lífs; en umfram allt þá láttu þenna kross verða til þess að glæða hans æðra andlega líf og miða til að undirbúa hann undir hið eilífa lífið. Láttu hann þekkja þína agandi föðurhönd og gef þú honum þolinmæði, óbifanlegt trúartraust og undirgefni undir þinn blessaða vilja. Gef þú honum ráð og rænu til að andvarpa til þín og úthella hjarta sínu fyrir þjer í bæninni, svo hann ávalt mæni augum trúar og vonar upp til þín og hafi það hugfast, að þjáningar nálægs tíma eru skammvinnar og ljettvægar í samanburði við þá eilífu dýrð, sem við oss mun opinber verða. Láttu hann iðuglega hugsa um frelsarans óumræðilegu kvöl og pínu, sem hann hei-

lagur og saklaus varð að þola fyrir oss synduga og seka og að oss ber að líða með honum, svo vjer verðum með honum vegsamlegir gjörðir, já að oss byrjar fyrir miklar hörmungar að innganga í þitt ríki. Æ drag þú allan hug og hjarta hans til þín og láttu hann tilheyra þjer í lífi og dauða. Vertu honum náðugur og miskunsamur í Jesú nafni, amen.

## Bæn fyrir deyjandi.

Almáttugi og eilífi Guð! miskunsemdanna himneski faðir! Þú vilt að vjer skulum biðja fyrir bræðrum vorum og hefur fullvissað oss um, að trúuð og auðmjúk bæn sje þjer þóknanleg. Æ! virztu af þinni óendanlegu miskunsemi að taka að þjer þenna vorn deyjandi bróður (systur). Gjör þú dauðastríð hans ljettbært og gef þú honum hægt og sáluhjálplegt andlát. Vertu honum nálægur með þinni náð og láttu hann sigra alla dauðans ángist og ótta í lifandi von um eilíft líf. Láttu hann finna til þess, að dauðinn getur ekki skilið hann við þinn kærleika í Jesú Kristi. Æ, drottinn! láttu hann ekki lengi þjást, heldur breyttu sem fyrst þjáningum hans í eilífan fögnuð og gleði. Í

þínar hendur felum vjer hans anda, í Jesú nafni, amen.

## Bæn við ástvina dauða.

Hjálpa þú oss, eilífi góði Guð! hjálpa þú oss, þegar vorir veiku kraptar ætla að bila og vjer ætlum að örmagnast undir sorgarinnar þungu byrði. Hjálpa þú oss þegar dauðinn slítur hin viðkvæmu ástarböndin, og hrífur þá úr faðmi vorum, sem vjer unnum heitast hjer á jörðu. Hjálpa þú oss þegar augu vor eru þrútin og sjón vor depruð af saknaðar tárum, svo vjer ekki sjáum nje skiljum þitt eilífa vísdómsráð. Láttu þá þinn heilaga huggunar anda fullvissa oss um, að ástvinir vorir eru hjá þjer ï sælunnar og friðarins himnesku bústöðum og að vjer innan lítillar stundar fáum að sjá þá aptur í landi lifenda. Ó! drottinn! þerra þú sorgartárin af augum vorum með þeirri hugsvalandi von og vissu, að fyrr eða síðar söfnumst vjer allir hjá þjer, sem setjum alla vora von til þín og berum þann kross, sem þú leggur oss á herðar með þolinmæði og undirgefni undir þinn heilaga vilja. Hjá þjer er gott að vera; hjá þjer er friður og fullsæla, og sæll er sá sem búinn er að þreyta skeiðhlaupið og er

kominn heim til þinna himnesku föðurhúsa. En sæll er líka sá, sem þegar hjer í lífi er þjer sameinaður í trú og elsku og hefur umgengni sína á himnum, því mitt í tárum og trega getur hann vonglaður lypt augum sínum til himins og ausið hugsvölun úr lindum þinnar eilífu náðar; já, eilíflega sæll er sá, sem lifir þjer og deyr í þjer, því hann hefur höndlað eilíft líf og fer frá dauðanum til lífsins, amen.

---

# Vikubænir

útaf sjö orðum Krists á krossinum.

---

## Sunnudagur.

Faðir! fyrirgef þeim, því þeir vita ekki, hvað þeir gjöra.

Með þessum bænarorðum baðst þú, drottinn vor og frelsari! fyrir þeim óguðlegu syndurum, sem negldu þig á krossinn. O! hvílík elska, hvílík mildi! Hver getur með orðum útmálað þinn eilífa kærleika, þína óendanlegu náð? Æ! bið þú einnig föðurinn fyrir oss, sem svo opt ekki vitum, hvað vjer gjörum, þó vjer ættum að vita það. Í þínu heilaga orði

erum vjer uppfræddir um þitt ráð og þinn vilja oss til sáluhjálpar; en heimurinn blekkir oss með lystingum sínum, girndirnar blinda oss með sínum tælandi fagurgala og óvinur sálnanna sáir illgresinu í hjörtu vor, þegar vjer sofum og erum orðnir andvaralausir um vor sáluhjálparefni. Þess vegna hrösum vjer og föllum og brjótum allir margfaldlega. Æ! fyrirgef oss, himneski faðir! allar vorar syndir og ávirðingar í nafni þíns eingetna sonar, frelsara vors Jesú Krists. Lífgaðu vor dauðu hjörtu, glæddu vora veiku trú og láttu þitt heilaga og sáluhjálplega orð lýsa oss og leiða á lífsins veg, svo vjer vitum, hvað vjer gjörum og það verði mark og mið allra vorra gjörða, allra vorra orða og hugsana, að þóknast þjer og hlýða þínum blessuðu boðum, að elska þig og meðbræður vora og fyrirgefa þeim af hjarta, sem gjöra eitthvað á hluta vorn, svo vjer verðum þín börn, kostgæfin til allra góðra verka. Bænheyr það í Jesú nafni, amen.

## Mánudagur.

Í dag skalt þú vera með mjer í paradís.

Ó, herra Jesús Kristur! þú hefur gefið oss órækan vott og vissu um þína náð

og miskunsemi þegar þú með þessum huggunarfullu orðum ávarpaðir ræningjann á krossinum, sem snjeri sjer til þín með sannri iðrun og trú. Æ, drottinn! sendu oss einnig anda iðrunarinnar, svo að samvizka vor verði næm og viðkvæm og vjer getum lært að þekkja syndir vorar, svo vjer iðrumst þeirra af hjarta og verðum teknir til náðar af þjer. Leyf þú oss að vera með þjer og vera þjer ávallt sameinaðir í trú og elsku; láttu það verða vora æðstu unun að hafa hugann hjá þjer og hugsa á hverjum degi um þína óendanlegu elsku. Og þegar æfidagur vor er liðinn og vjer eigum að flytja hjeðan, æ! minnstu vor þá í náð og láttu oss í hjörtum vorum heyra þessi huggunarfullu orð: „í dag skaltu vera með mjer í paradís" svo vjer getum ókvíðnir tekið dauðanum og í þínu nafni falið vorn anda í föðursins hendur. Amen.

## Þriðjudagur.

„Kona! sjá, þar er sonur þinn"
og við lærisveininn:
„Sjá, þar er móðir þín."

Almáttugi og eilífi miskunsemdanna Guð og faðir! þú hefur sýnt oss með dæmi frelsara vors Jesú Krists, hvernig

vjer eigum að annast ástvini vora og þá, sem oss eru vandabundnir, með því hann í sinni sáru kvöl og pínu fól sína hjartkæru móður á hendur þeim lærisveini, sem hann elskaði. Æ! úthelltu þínum heilaga elskunnar anda í vor hjörtu og gef þú oss náð til þess, að geta elskað aðra eins og oss sjálfa og einkum þá sem þín forsjón sjer í lagi hefur falið oss á hendur, svo það verði oss ljett og ljúft, að annast þá og ala önn fyrir þeim. Láttu kristilegan bróðurkærleika búa meðal vor, svo vjer varðveitum einingu andans í bandi friðarins og allt vort dagfar lýsi því, að vjer sjeum þín börn og Jesú lærisveinar. Æ! góði, líknsami frelsari! gróðursettu oss í þínum kærleika, svo hið sama lunderni geti búið í oss eins og var í þjer og vjer af alefli kostum kapps um að líkjast þjer og breyta eptir þínu heilaga dæmi; og þegar dauðans nótt upprennur, vertu oss þá nálægur með þinni náð og láttu oss fá að reyna, að elskan er sterkari en dauðinn, og að kærleikans líf, lífið í þjer og föðurnum, er hið eilífa, sanna og sáluhjálplega líf, amen.

## Miðvikudagur.

„Guð minn, Guð minn! hví hefur þú yfirgefið mig?"

Ó! herra, Jesús Kristur! Vjer þökkum þjer af öllu hjarta fyrir þína óendanlegu elsku til vor syndugra manna, fyrir þá óumræðilegu kvöl og pínu, sem þú vor vegna þoldir á krossinum, svo að þú kallaðir hátt og mæltir: „Guð minn! Guð minn! hví hefur þú yfirgefið mig?" Þú hefur opnað oss aðgang til föðursins og þjer er það að þakka, að vjer megum trúa því og treysta, að hann yfirgefur oss aldrei, ef vjer höldum oss stöðuglega til hans. Æ! drottinn! láttu þenna huggunarfulla sannleika gefa oss þrek og djörfung til að berjast hinni góðu baráttu trúarinnar, svo vjer aldrei yfirgefum þig eða þann veg, sem til lífsins leiðir; láttu hann gefa oss þrek og djörfung til að fylgja þínum heilögu boðum, en skilja við syndina og yfirgefa allt, sem þjer er mótstæðilegt. Og þegar dauðastund vor upprennur og vjer eigum að segja skilið við þetta vort jarðneska líf, þegar allir tímanlegir hlutir yfirgefa oss og vjer erum staddir í dauðans angist, ó, vor Guð! láttu oss þá finna til þinnar mildiríku nálægðar í sálum vorum,

finna til þess, að þú einn yfirgefur oss aldrei, heldur flytur oss frá dauðanum til lífsins, til eilífs lífs og eilífrar sælu. Bænheyr það sökum Jesú friðþægingar og í hans nafni, amen.

## Fimmtudagur.

„Mig þyrstir".

Algóði, himneski faðir! þegar vjer í anda nálgumst þíns sonar kross og virðum fyrir oss þá óumræðilegu kvöl og pínu, sem hann varð að þola vegna vor syndugra manna og að hann, þjáður af dauðans þorsta, ekki fjekk annann svaladrykk en súrt edik, æ! þá hljóta hjörtu vor að klökkna og bráðna, þá hlýtur hver og einn af oss með angri og trega að finna til synda sinna og vakna til alvarlegrar umhugsunar um sín sáluhjálparefni. Ó, Guð! vjer játum það með iðrandi hjörtum, að oss hefur of mjög þyrst í þessa heims hverfulu gæði, og að vjer því miður höfum leitazt við, að svala þorsta vorra syndsamlegu girnda, með því að drekka úr þeim svölunarlindum, sem holdið og heimurinn hafa vísað oss á. En því meir sem vjer drukkum úr þeim, því meir þyrsti oss, því þetta eru lindir dauðans. Öðruvísi var þínum þorsta varið,

vor himneski frelsari! Þig þyrsti eptir sáluhjálp vorri, eptir vorri andlegu og eilífu farsæld. Æ! vek þú í oss þorsta hins eilífa lífsins, svo að oss hungri og þyrsti eptir Guðs ríki og hans rjettlæti; og þegar heimurinn freistar vor til syndar og hvenær sem holdlegar girndir taka til að hreifa sjer hjá oss og ætla að leiða oss afvega, æ! láttu þá hljóma í eyrum vorum þetta orð þitt á krossinum: „mig þyrstir", svo að vjer snúum oss til þín og gefum gætur að þinni aðvarandi rödd. Og þegar þorsti dauðans tekur til að þjá oss og vjer ætlum að örmagnast í voru dauðastríði, æ! svala þú oss þá af hinum eilífu lífsins lindum, sem þú hefur leitt í ljós og taktu oss í þinn himneska náðarfaðm, amen.

## Föstudagur.

„Það er fullkomnað".

Með þessum orðum: „það er fullkomnað", fullkomnaðir þú hið háleita endurlausnarverk, vor guðdómlegi frelsari! Með þeim gafst þú til kynna, að stríðinu væri lokið og sigurinn unninn, að nú væri frelsi vort fullkomnað, himininn opnaður og dauðinn uppsvelgður í sigur. Lofað og vegsamað sje þitt heilaga nafn! Ó,

Jesú! fullkomna þú þína endurlausn í sálum vorum, svo vjer getum helgað þjer hjörtu vor og barizt trúarinnar góðu baráttu gegn öllum óvinum sáluhjálpar vorrar, fullkomna þú í oss hið góða verkið, verk iðrunarinnar og helgunarinnar og vertu máttugur í vorum veikleika, svo að allt, sem er ófullkomið í fari voru, verði fullkomið fyrir krapt þíns himneska kærleika. Æ! þú ert ekki einungis höfundur, heldur og fullkomnari trúarinnar; styrk þú vora veiku trú, svo hún verði sönn lifandi og ávaxtarsöm í kærleikanum. Og þegar æfiskeið vort er á enda runnið, gef þú oss þá náð til að geta sagt með guðrækilegri djörfung: það er fullkomnað þjer til lofs og dýrðar, en oss til sáluhjálpar, amen.

## Laugardagur.

„Faðir! í þínar hendur fel eg minn anda".

Ó! herra Jesú, himneski lausnari, þú, sem oss til sáluhjálpar varst þínum himneska föður hlýðinn allt fram í dauðann og sem í dauðanum fólst þinn anda í hans hendur, með þessum orðum: faðir! í þínar hendur fel eg minn anda, gef þú oss náð til þess iðuglega að hugleiða þína

pínu og þinn friðþægjandi dauða í sannri og lifandi trú, svo vjer daglega deyjum frá syndinni og getum með kristilegri djörfung rennt huganum til vorrar dauðastundar í vissri von um, að þessi líkamlegi dauði verði oss inngangur til eilífs lífs og eilífrar sælu. Hjálpa þú oss náðarsamlega til að búa oss rjettilega undir burtför vora hjeðan og láttu þinn heilaga anda mennta og helga vorn anda, svo að oss daglega fari meir og meir fram í dyggð og guðsótta og vjer daglega nálgumst himininn eins og vjer daglega nálgumst dauða vorn. Og þegar dauðastund vor upprennur og hið stranga stríðið byrjar, æ! veittu oss þá sáluhjálplegan sigur, vertu oss þá náðugur og miskunsamur, láttu oss þá deyja með þín andlátsorð í hjartanu og meðtaktu vorn anda í þína eilífu dýrð. Amen.

---

Margir hafa kvartað yfir því, að vjer hefðum svo fáar vikubænir á voru máli og að oss einnig vantaði bænir, sem lesa mætti við ýmisleg merkileg atvik í lífinu. Til að reyna til að bæta úr þessu, en ekki af því að jeg ætlaði að búa til betri bænir en þær, sem vjer áður höfum, hefi jeg samið þetta litla bænakver, sem hjer kemur fyrir almennings sjónir, og skal jeg einungis leiðbeina því með þeirri hjartanlegu ósk, að þessar einföldu bænir fái vakið og glætt guðrækilegar tilfinningar í hjörtum lesendanna og með þeirri innilegu von, að Drottinn gefi náð sína til þessa, þegar bænirnar eru hafðar um hönd með eptirtekt og andakt.

Reykjavík, 24. júlí mán. 1860.

*P. Pjetursson.*

# Yfirlit efnisins.

---

Ýmislegar bænir: Bls.



Borðbænir:



---

